*Hollr*, lo, velviljaðr, vinveittr, Hl, 3.

*Hólmr*, k, afmarkað svið: *h. randar*, skjöldr (eins og *baugjörð*), H2, 5.

*Hörðar*, k. mt, innbúar Hörðalands í Noregi. 2) þjóð, í jötna kenn., *H-ar harðgleipnis borðs*, úlfkynjuð þjóð, trylt þjóð, jötnar, Þ. 11.

*Hrafnáss*, k, hrafnagoð, Óðinn (Se. 24. l. 7-14), e. et.-*ar*; *vinr h-ar*, Hænir, Hl, 4.

*Hrapmunnum*, snörum höndum, Þ. 16 (*hrap-*, af *hrapa*, flýta sèr, d. *rap*, snar; *munnum* = *mundum*, af *mund*, hönd).

*Hraundrengr*, k, jötun, H2, 4.

*Hraðskyndir*, k, sá sem flýtir mjög ehm hlut; *h. gunnar*, hermk. í kall., Þ. 16.

*Hregg*, kl, óveðr, hret með stormi og regni; *höggvin hreggi*, veðrbarin, hèr vatnsbarin, straumbarin, Þ. 6.

*Hreingorr*, lo, gerðr hreinn, fagr, um skjöld, Hl, 1.

*Hreinn*, k, hreindýr; *rein h-s*, svæði hreindýrs, heiðar, H2, 3; mt. *hreinir* (= *-ar*): *gnipu h-ir*, jötnar, Þ. 13 (sbr. *hafr*).

*Hrærir*, k, sá sem hrærir, flytr úr stað: *h. sagna* (flokka), flokkstjóri, um Loka, Hl, 9.

*Hretviðri*, kl, stormr: *h. jarðar skafls*, fjallveðr, fjallastormr, Þ. 8.

*Hrímnir*, k, jötun; *h-is drós*, tröllkona, Þ. 16.

*Hrinbálkr*, k, öskrandi flokkr (*hrína*; *bálkr*, safn): *h-ar þornranns* (hellis), jötnar, Þ. 13.

*Hrinda*, s. (*hrind*, *hratt*, *hrundit*), reka, kasta; *hrundin grapi*, lostin óveðri, H2, 2.

*Hrinna*, s., drynja, H2, 2 (Kb; Ob. *brinna*, brenna).

*Hrjóða*, s. (*hrýð*, *hrauð*, *hroðit*), eyða; gsk, *hrjóðendr fjöru þjóðar* (jötna), þeir Þór, Þ. 11.

*Hrökkva móti*, hrökkva við, veita viðnám, verja sig, H2, 3.

*Hrönn*, kv, bylgja; vatnsmegn, Þ. 8.

*Hrunsær*, k, brynjandi, glymjandi sjór: *h. hræva*, hræsjór, hrælögr, blóð; í mt., *hundr hræsæva hræva*, hundr (vargr) blóðs, haukr, valr, um Loka í valsham, Hl, 11.

*Húfstjóri*, k, skipstjóri (*húfr*, skipssíða): *vafrevða hreggs h.*, stýrir eldkerru, þrumukerru, Þór, Þ. 14. Reið Þórs kallast hèr skip eldíngaveðrs, af löguninni; því sleðar Lappa (Finna), sem þeir kalla *kerris*, eru að mynd og lögun sem hálfr bátr eða gaflskúta (Lærd. l. fèl. rit 8, 103—4), sbr. *baugr*, *hófreginn*.

*Hugreynandi*, k, sá sem reynir hug annars, vinr (sjá *geðreynir*): *h. Hænis*, vinr H., Loki, Hl, 12.

*Hundforn*, lo, eldgamall, Þ. 14.

*Hundr*, k, vargr, í vals kenn., sjá *hrunsær*.

*Hvalr*, k, stórfiskr: *h. þrymseilar vǫro*, uxi, H1, 5.

*Hvat*, kl. fn., eitthvað, H1, 3.

*Hvelvala*, kv, ávalr, hnöttóttr köggull, hnöttótt bein (*hvel*, *vala*): *hálar h-ur markar*, hál bein jarðar, hálir steinar, Þ. 6.

*Hylrið*, kv, skýlu hríð (*hyl* = hula, *rið* = hríð), í mt. *Hèðins reikar h-ar*, hríðir hjálms, bardagar, Þ. 11.

*Hýmir*, k, jötun: *áttrunnr H-is*, jötun (Þjassi), H1, 9.

*Hyrr*, k, eldr; eldíng, H2, 1, sjá *baugr*.

*Il*, kv, fótrinn að neðanverðu; *gaupnir ilja*, lág-iljar, = fætr, Þ. 3.

*Ímundís*, kv, valkyrja, mt. *-ir*, H2, 4 (*ímun*, orusta; *dís*, gyðja).

*Íngifreyr* (= Freyr); *áttir I-s*, Æsir, H1, 10.

*Ísarnleikr*, k, járnleikr, vopnaleikr, orusta (*ísarn*, járn), H2, 1.

*Íss*, k, ís; *í. randa*, skjöldr, H2, 4.

*Ítr*, lo, ágætr, frægr, Þ. 17.

*Íva*, kv, á í Ángrmannalandi í Svíþjóð, nú *Iby*; *flesdrótt Ívu nesja*, jötnar, sem þar bjuggu á annesjum, Þ 12.

*Íþrótt*, kv, iðn; *í. hersa*, hernaðr, herskapr, Þ. 13.

*Iði*, k, e. et. *-ja*, jötun (bróðir Þjassa); *Iðja setr*, bústaðr jötna, samst. við *Gandvík*, Þ. 2.

*Iðuðr* = *Iðunn*, kona Braga, sem geymdi epli goðanna, H1, 10.

*Jálfr*, kl, (= jálmr), gnýr, Þ. 19, sjá *undirblika*.

*Jólnir*, k, Óðinn; *útves J.* útgarða (Jötunheima) Óðinn, Geirröðr jötun, Þ. 12.

*Jormunþrjótr*, k, mesti þverhöfði, Þuss, jötun, H2, 5. (*jormun-* áherzluorð).

Jörð, kv., kona Óðins; *sunr jarðar*, Þór, H2, 1.

*Jótr*, k, jaxl, tönn, sjá *bígyrðill*.

*Kálfr*, k, úngt naut; *k-ar Álfheims*, jötnar, Þ. 19.

*Karmr*, k, herbergi, hús; *bekkkarmr*, bekkjarhús, stofa, *bekkkarms rekkar*, búðunautar, fjelagar, lagsmenn, Þ. 18.

*Kind*, kv., afkvæmi; *ymsa* k., jötun, jötnar, Þ. 2.

*Kjölr*, k, í skipi; k. *hlátrelliða* (brjósts), hryggr, Þ. 14.

*Kná*, *knátta*, s., eg get, gat, breytist eins og *má*, *mátta*, en vantar nút., nh., gsk og gsb (knega, knegandi, knátt); er haft með nút. nh. til sagnarfyllíngar, t. d. *knátti glymja* = glumdi, Þ. 6; eins *knáttu hrinna*, H2, 2.

*Kneyfir*, k, sá sem knýr áfram; *k. dróttar*, fyrirliði, herforíngi, um Geirröð, Þ. 12.

*Kólga*, kv, kuldaveðr; *kólgu Svíþjóð*, kalda Svíþjóð, Þ. 12.

*Kon* fyrir *konr*, k, maðr; *kon fjarðeplis jarðar*, fjalla maðr, jötun, Þ. 15.

*Kumrar*, k. mt., innbúar Kumbaralands (Kumralands, nú Kumberland) í Einglandi; þjóð, í jötna kenn., *hellis k.*, jötnar, Þ. 13.

*Kvoðo* = kváðu, ɔ: menn (Æsir) sögðu, Hl, 3.

*Kykvi*, k, vöðvi, aflvöðvi: *k-a nauð*, það sem reynir á aflvöðvann, bogi, sjá *herðiáss*, Þ. 8.

*Lángvinr*, k, fornvinr; *l. þrúngvar* (Freyu), Þór, Þ. 16.

*Láta*, s. (*læt*, *lèt*, *látið*), segja, Þ. 7.

*Látr*, kl, legstaðr; *l. valrúgar*, skjöldr, sem skotvopnin lenda í: *valrúgar látr-eldar*, sverð (um steinvopn jötna), Þ. 19.

*Laut* = hlaut (af *hljóta*); *laut sigr*, vann sigr, Þ. 18.

*Leggja upp*, hefja upp, Hl, 5. (Se. bls. 45).

*Leggr*, k, bein; *l. mo*"*ar* (jarðar), steinn, fjall, Þ. 15.

*Leikreginn* sjá *blað*.

*Leiðar*, 2. et. aflh. af s. *leiða*, fyrir *leiðir*, Hl, 11.

*Leiðiþirr*, k, þræll, sem leiðir, leiðandi þræll (*leiða*, *þirr*); *l. ölgefnar* (konu), Loki, sem teygði Iðunni út fyrir Ásgarð í hendr Þjassa jötni, Hl, 11.

*Lævilundr*, k, lævís, hrekkjóttr maðr (*læ*, hrekkr; *lund*, geðslag), um Loka, Hl, 11.

*Listi*, k, hèrað í Noregi f. v. Líðandisnes; land, *steins L.*, steinland, fjall, *Ella steins L-a*, jötun, Þ. 19.

*Lísti* = laust af s. *ljósta*, slá, Þ. 13.

*Lið*, kl, hjálp; *liðs tollr*, hjálparstaung, sjá *tollr*, Þ. 18.

*Líða*, s. (*líð*, *leið*, *liðit*), fara; *leið mjök or stað*, honum miðaði vel áfram, Þ. 5.

*Liðfastr*, lo, liðhraustr (*lið*, hjálp), eða heldr, sterkr, þrekinn (*liðr*, limr), Þ. 19.

*Liðhatti*, k, ss. liðhati (af *hatta* = hata), sá sem hatar, hafnar liðveizlu: *hlífar l-ar*, Æsir, sem geingu hlífarlausir í orustu (Ýnglíngasaga 6. kap. seinast), Þ. 11.

Logi, k, eldr, um málelda: *himinn l-a*, þak, rjáfr, Þ. 14.

*Lögseimr*, k, band lagar, Miðgarðsormr (*lögr*, *seimr* = *simi*): *faðir l-s*, Loki, Þ. 1.

*Loki*, áss, sonr Farbauta, Þ. 4, sjá *Loptr*.

*Lómhuguðr*, lo, hrekkvís (*lómr*, hrekkr), Hl, 12.

*Loptr*, ss. Loki, Þ. 1: Hl, 8. sjá *gammleið*.

*Loða* (*i*, *dda*, *at*), vera fastr við, Hl, 7.

*Lúta fyrir*, lúta í lægra hald, láta undan, Þ. 12.

*Lyf*, kl, læknisdómr, sjá *ellilyf*.

*Lyptisylgr*, k, drykkr, sem brugðið er á lopt (*lypta*, *sylgr*): *l. handa*, samst. við *sía*, járnstaung sú, er Geirröðr kastaði af hendi, Þ. 16.

*Mágr*, k, teingdamaðr, venzlamaðr, sjá *sefgrímnir*, 2) stjúpfaðir: *m. ullar*, Þór, H2, 2.

*Málhvettr*, lo, málhvatr, háraustaðr; Þ. 6, glymjandi, um broddstafi, sem glamra við grjót.

*Málunautr*, k, vinr, fjelagi, H1, 8.

*Máni*, k, túngl; *vegr m-a*, lopt, himin, H2, 1.

*Manntelir*, k. mt, af et. *manntáll*, sá sem gerir mönnum tjón: *gallopnis halla m-ir*, eyðendr jötna, þeir Þór, Þ. 3.

*Már*, k, máfr: *m. valkastar báru* (blóðs), örn, um Þjassa í arnarham, H1, 3.

*Margspakr*, lo, margvís, hundvís, H1, 3.

*Marr*, k, sjór; *m. hallands*, sjór fjalls, vatnsfall, árstraumr, Þ. 7.

*Mátu* = *máttu*, gátu, 3. mt. þát. frsh. af s. *mega*, Þ. 19.

*Mega*, s. (*má*, *mátta*, *mátt*), geta. 2) neyðast til, verða, H1, 8.

*Megin*, kl, megn, afl; *m. svíra*, afl í hálsinum, hálsmagn, Þ. 7.

*Meili*, son Óðins; *bróðir M-a*, Þór, H2, 1.; í kenn., sjá *Fetmeli*.

*Mein*, kl, skaði, tjón; *m-a nesta*, sjá *nesta*, Þ. 17.

*Meinsvaran*, kl, meinsæri; *m-s hapt*, meinsærisgoð, Geirröðr jötun, óvinr Ása, Þ. 3.

*Mænir*, k, húsmænir: *m. hjarna*, hauskúpa, eða hvirfill, H2, 6.

*Mest*, ao. est.; *mest niðr í*, beint niðr í, rètt niðr í, Þ. 17.

*Með*, sto, með þi., = til; *með jötnum*, til jötna, H1, 10.

*Meðal*, ao. í sams., í meðallagi, ekki alls kostar, t. d. *meðaltálhreinn*, ekki svikalaus, H1, 3.

*Mildíngr*, k, kóngr, um Óðin; *málunautr m-s*, Loki, H1, 8.

*Mögr*, k, sonr, H1, 5.

*Möl*, kv., smásteinar; um grýttan árbotn, Þ. 6.

*Mór*, k, jörð: *m. endils*, fjallvegr, Þ. 3.

*Mörn*, kv, á (eiginlega áin *Marne* á Frakklandi), Þ. 7.

*Morn*, *mörn*, kv., tröllkona; *faðir m-a*, jötun (Þjassi), H1, 6.

*Mørr*, lo, = *mærr*, fagr, ágætr, H1, 11.

*Mørr*, kv., jörð, land; *leggr m-ar*, bein jarðar, steinn, fjall: *menn mørar leggs*, jötnar, Þ. 15.

*Móðr*, k, æði, reiði (ásmóðr), H2, 1.

*Mugðo* (= máttu), úrelt þát. af *mega*, geta (Þ. *mochte*, *mogte*), Þ. 15.

*Munstørandi*, sá sem eykr manni gleði (*munr*, gleði; *støra* = *stæra*), um Iðunni, H1, 11. sbr. *sorgeyra*.

*Myrkbak*, kl, myrkr, dimmr hryggr; *myrkbök hreins reinar*, dimm heiðarbök, fjöll, H2, 3.

*Nagr*, k, einhver fugl; *n. sveita* (blóðs), örn, H1, 8.

*Nanna*, kv, ásynja, kona

Baldrs; *n. vorru hjalts*, fjallgyðja, tröllkona, Þ. 5.

*Nauð*, kv, raun, áreynsla; *n. kykva*, vöðva raun, bogi, Þ. 8.

*Nè*, ao, ekki, Þ. 6. 10. 15. 19.

*Nema*, ao, ef ekki, Þ. 7.

*Nema*, s. *(nem, nam, numit)*, kunna: *n. frœði*, kunna íþrótt, Þ. 15.

*Nesta*, kv, þorn, álma; *meina n.*, meinlegr, hættulegr þorn, um járnstaung, Þ. 17.

*Neytr*, lo, nýtr, góðr; *hin neytri ráð*, betri úrræði (en að segja það, sem eptir kemr), Þ. 7.

*Niði* og *niðr*, k, afkomandi, mt. *niðjar; n-jar þorns*, jötnar, Þ. 2.

*Njarðgjörð*, kv, sterk gjörð, um megingjarðir Gríðar, Þ. 7. (sbr. *njarðlásar*, sterkir lásar, í Fjölsvm. 27).

*Njörn*, kv., tröllkona (Skaði); *faðir N-ar*, Þjassi H1, 12.

*Njótr*, k, sá sem nýtr ehs, nýtir ehð, hefir ehð: *n. njarðgjarðar*, Þór, Þ. 7.

*Of*, ao, yfir, með þo, Þ. 7. 2) sem málfyllíng, með *n*, H1, 1. 8: 2, 3. 4. 7; með *lo*, H1, 13: 2, 1. 6; með s., H1, 3. 9; aldrei í Þ., nema í 18. er., þar sem kannske ætti heldr að vera *ok*.

*Öglir*, k, haukr; *ö-is barn*, sama, um Loka í valsham, H1, 12.

*Ógndjarfr*, lo, áræðisgóðr í orustu, vígdjarfr, Þ. 10.

*Okbjörn*, k, uxi, H1, 6. *(ok, kl, björn)*.

*Ólágr*, lo, hár: *ó. gjálbr*, H2, 5.

*Ölgefjon*, kv, kona *(öl, Gefjon)*, um Gröu völvu, H2, 7.

*Ölgefn*, kv, kona *(öl, Gefn)*: H1, 11.

*Ölteiti*, kv, (= alteiti), fullkomin gleði: *kenna ö.*, finna til, njóta fullrar gleði, Þ. 15.

*Oltinn*, þsk, af *velta*, Þ. 5.

*Öndrguð*, kl, skíðagoð, Skaði; *fóstri Ö-s*, faðir Skaða, Þjassi, H1, 7.

*Örþrásir*, k, sá sem þráir mjög, elskar mjög *(ör; þrási* af *þrá)*: *ö. Greipar*, faðir Gr., Geirröðr, Þ. 16.

*Ósvifrandi*, k, óvinr: *ó. Ása*, Þjassi jötun, H1, 5.

*Ótti*, k, ógn: *ó. jötna*, Þór, H2, 1.

*Óðnis* = Óðins, e. et. af Óðinn, Þ. 15.

*Rá*, kv, staung, H1, 7.

*Raddsveif*, kv, sveif, stýri raddarinnar, túnga, H1, 1.

*Raumr*, k, jötun: *r-s brú* (fótafjöl), skjöldr, H1, 1.

*Regin*, kl. mt, goð, H1, 7, 10.

*Reginn*, k, 1) dvergr, álfr, sjá *leikreginn* (um Þjassa). 2) sjá *hófreginn* (um Þór).

*Reik*, kv., hvirfill, þar sem hárið klýfst: *Hèðins reikar hyla*, höfuðskýla Hèðins, hjálmr (sjá *hylríð)*, Þ. 11.

*Reimoðr*, k, óvist (höfðíngi?): *r. Jötunheima*, Þjassi, H1, 7.

*Rein,* kv, land: *r. hreins* (hreindýrs), heiði, H2, 3.

*Reiðitýr,* k, sá sem greiðir, veitir (af *reiða* = greiða; *Týr* áss): *r. heyli-sára,* sá sem veitir holsár, kappi (um Örvandil hinn frækna), H2, 7.

*Rekkr,* k, hraustr maðr: *r-ar gunnveggjar* (skjaldar), hermk., H1, 1.

*Rer,* k, sækonúngr. 2) jötun (eins og *glaumr*): *res kvan,* tröllkona, *hlöðr res kvanar,* Þór, Þ. 13.

*Rögnir,* k, Óðinn, sjá *víngrögnir.*

*Rönd,* kv, baugr á skildi: *íss, hólmr r-ar,* skjöldr, H2, 4. 5.

*Runi,* (runni?), k, sá sem lætr renna, sá sem kastar: *r. trjónu trölls* (hamars), Þór, H2, 4. 2) sá sem rennr, hlaupari, fylgisveinn: *r. þórs,* Loki, H1, 8.

*Runnr,* k, trè, úngviði: *r. gunnar,* mk. í kall., Þ. 8. 2) afkvæmi: *r. hauðrs,* sonr jarðar, Þór, Þ. 8.

*Ryð,* kl, járnryð: *böl ryðs,* hein (vopn Hrúngnis), H2, 7.

*Salvaniðr,* k, sá sem opt kemr í hús ehs (*salr; vaniðr* af *venja*): *arinsynjar s.* (tröllkonu), jötun, hans *brauti,* Þór, Þ. 18.

*Salþak,* kl, ræfr jarðar (*salr,* jörð), himinn, Þ. 7.

*Sefgrimnir,* k, hafr sefs, úlfr (*sef, grímnir* 2): *mágar sefgrímnis,* venzlamenn úlfa, tröll (vegna Se. 8, 4. 5); *brúðr s-is mága,* tröllkona, Þ. 4.

*Seggjendr,* k. mt, formenn (af *seggja,* segja fyrir): *s. sagna,* flokkstjórar, um Æsi, H1, 2.

*Segi,* k, biti, stykki: *töngu s.,* biti tángar, járnmilti, Þ. 15.

*Seil,* kv, band: *skaunar s.,* hlífarband = megingjörð, Þ. 9. sjá *þrymseil.*

*Sækja,* s. *(sæki, sótta, sótt),* heimsækja, H2, 1.

*Sæmir,* k, sá sem sæmir: *s. gunnveggjar rekka,* höfðíngi, H1, 1.

*Setja,* s. *(set, setta, sett); settu firir,* þ. e. þeir Þór settu fyrir sig (broddstafina), studdu sig við stafina, meðan þeir óðu yfir ána, Þ. 6.

*Seyðir,* k, eldr, H1, 2.

*Seðr,* ao, senn, undir eins, þegar í stað, H2, 2.

*Sía,* kv, járnstaung, Þ. 16.

*Sif-una,* óbr. lo, teingdr með fèlagskap, fèlagi: *sverðs s.,* herbræðr, Þ. 11.

*Síga,* s. *(síg, seig, sigit): láta sígast ofan,* seilast niðr, H1, 4.

*Sigyn,* kv, kona Loka, H1, 7.

*Sik,* þo. af fn. *sín,* haft fyrir þi. *sèr,* Þ. 7.

*Sinni,* kl, fylgd, samfylgd: *ýta s.,* samferðamenn, Þ. 9.

*Sjá,* s. *(sè, sá, sèð); of sèr,* það *sèst* (á skildinum), H2, 1.

*Sjálflopta,* ao, sjálfkrafa á

lopt (á lopti): *koma s.*, komast sjálfkrafa á lopt, halda sèr á lopti, Þ. 9.

*Sjóða*, s. *(sýð, sauð, soðit)*; *afli soðinn*, hitaðr fyrir afli, eldaðr, Þ. 15.

*Skafl*, k, dýngja; *sk. jarðar*, fjall, Þ. 8.

*Skáleik*, kv, kona, í kall., Þ. 11. *(skál, eik)*.

*Skalf-a*, skalf ekki, Þ. 10.

*Skammr*, lo, stuttr; *skömmu*, ao, ekki leingi, Þ. 2.

*Skapt*, kl, spjótskapt, *trè*-skapt, viðr: *skófu sköpt*, tálguðu við til eldkveykju, H1, 13.

*Skarpr*, lo, harðr: *s. hamarr*, H2, 5.

*Skaun*, kv, hlíf: *s-ar seil* hlífarband, megingjörð, Þ. 9.

*Skotar*, k, mt., innbúar Skotlands; þjóð, *S. Gandvíkr*, jötnar, Þ. 2.

*Skotnaðr*, k, ormr skots *(skot, naðr)*, spjót; hèr, skapt, stafr, staung: *háfr s-a*, stafsbroddar, Þ. 6.

*Skutill*, k, borð, H1, 4 *(helgo* = helgum); hèr líkl. flatar hellur, sem kjötið var steikt á.

*Skyldbretar*, k. mt, venzluð þjóð *(skyldr, Bretar)*: *s. skytju*, jötnar, Þ. 11.

*Skytja*, kv, skotmaðr, skytta (annars, *skyti*, k, e. et. *skytja)*, um Geirröð jötun, vegna skotfimi hans: *skyldbretar s-ju*, venzlamenn Geirröðar, jötnar, Þ. 11. (eða = *Scytha, Tschud?)*.

*Slíðrliga*, ao, ákaflega, H1, 6.

*Sneriblóð*, kl, stríðr lögr *(sneri* - af *snerrinn*, stríðr; *blóð* = dreyri, lögr): *s. mörnar*, stríðr árstraumr, Þ. 7.

*Snót*, kv, kona (um Iðunni, eins og *ölgefn*, H1, 11) H1, 2.

*Snytrir*, k, sá sem gabbar, vèlar (af *snotr*, kænn, brögðóttr): *s. hapta*, vèlandi goða, Þjassi, H1, 3.

*Sofa*, s. *(sef, svaf, sofit)*, sofa. 2) hvíla, vera kyrr, um steina, Þ. 6.

*Sögn*, kv., flokkr: *sviptir s-a*, Loki Þ. 3.: *seggjendr s-a*, Æsir, H1, 2.

*Sókn*, kv, bardagi: *tögnir (rögnir) s-ar*, herforíngi, Þ, 3.

*Sól* kv., ásynja; *brátúngls* (gulls) *sólar* (= sólir), konur, Þ. 14.

*Sólginn*, lo, gráðugr, H2, 3.

*Sorgeyra*, óbr. lo, læknandi sorgir, læknir sorga (*sorg, Eir*, læknisgyðja), um Iðunni, H1, 9, sbr. *munstørandi*.

*Spenna*, s. *(-i-da, -t)*, spyrna; *spendu ilja gaupnum*, spyrndu fótum, geingu, Þ. 3.

*Sprund*, kl, kona: *hellis s.*, tröllkona, Þ. 14.

*Stál*, kl, járn, um broddstafi: *straumr, stríðr stáli*, svo harðr straumr, að stafirnir stóðust valla vatnsmegnið, Þ. 9.

*Stallr*, k; (hjarta) *drepr stall*, berst í brjósti (af hræðslu), Þ. 10.

*Steinn*, k; *st. þróttar* (þreks), hjarta, Þ. 10.

*Steypir*, k, sá sem fellir, vegandi: *st. stophnísu* (tröllk.), Þór, Þ. 9.

*Steði*, k, steðji: *st. Feðju* (= Fenju), grjót, Þ. 6.

*Stikleið*, kv, vað yfir á (af at *stika*, *stikla*): *breiðr vegr st-ar*, breitt vað, Þ. 5.

*Stökkva*, s., dreifa; *stokkinn blóði*, blóði drifinn, H2, 6.

*Stökkvir*, k, sá sem rekr á flótta: *st. urðar þrjóts* (jötuns), Þór, Þ. 5.

*Stophnísa*, kv, heiðar hnísa, tröllkona, Þ. 9 (af *stop*, mishæð, hóll, og *hnísa*, hvalr).

*Stöð*, kv., staðr: *glamma st.*, átthagi úlfa, heiðar, *glamma st-var vamr*, jötun, Þ. 10.

*Straumr*, k, vatns streingr, vatnsmegn, Þ. 9.

*Stríðkviðjandi*, k, sá sem segir ófrið á hendr ehm, óvinr: *str-dr glamma stöðvar vams* (jötuns), Æsir, þeir Þór, Þ. 10.

*Stríðlundr*, lo, harðlyndr, Þ. 9.

*Stríðr*, lo, strángr: *stríðr straumr*, Þ. 9.

*Sunr*, k, sonr, H2, 1.

*Suðri*, k, dvergr: *átruðr suðra*, jötun, Þ. 15.

*Sveinn*, k, sonr: *s. grundar*, son jarðar, Þór, H2, 6.

*sveipr*, k, skjót, svipleg umbreytíng, tálman, H1, 13, *s. í för*, farartálmi.

*Sveiti*, k, 1) sveiti. 2) blóð, H1, 8.

*Svelgja*, s. (*svelg*, *svalg*, *solgit*), gleypa í sig; *svalg á lopti* (*lypti-sylg handa*), tók (síuna) á lopti, Þ. 16.

*Sverðfen*, kl, lögr jarðar, vatn, vatnsfall, Þ. 8 (af *sverðr* = *svörðr*, jarðarsvörðr, og *fen*, sjór, vatn).

*Sviptir*, k, sá sem færir úr stað, flytr af stað: *s. sagna*, flokkstjóri, um Loka, Þ. 3 (sbr. *hrærir*).

*Svíri*, k, háls, Þ. 7.

*Svölnir*, k, Óðinn: *ekkja S-is*, kona Óðins, jörð, H2, 2.

*Syn*, kv., ásynja: *arinsyn*, tröllkona (sjá *arinsyn*), Þ. 18.

*Tálhreinn*, lo, svikalaus, H1, 3.

*Tífi*, k, goð: *fróðugr t.*, Loki, H1, 8; mt. *tífar*, goð, H1, 3, og *tívar*, H1, 1.

*Tíðr*, lo, sá sem opt gerir ehð, er gjarn á ehð: *t. fjöllama*, drápgjarn, vígfús, H2, 4, um jötun.

*Tögnir* (Kb), k, leiðtogi; *t. sóknar*, hertogi, um Þór, Þ. 3 (Ob. *rögnir*).

*Tollr*, k, = *þollr*, úngt grenitrè; þar af, staung: *liðs tollr brautar*, hjálparstaung vegar, gaungustafr, um Gríðarvöl, Þ. 18.

*Töng*, kv., taung; e. et. *töngu* (eins og af *tánga*) fyrir *tángar*, Þ. 15.

*Tormiðlaðr*, k, sá sem miðl-

ar, veitir ehð torveldlega, með tregðu: *t. beina*, um Þjassa, sem olli því, að Æsir gátu seint matreidt, H1, 3.

*Trjóna*, kv, rani á bryntrölli; *t-u tröll*, bryntröll, um hamarinn Mjölni, H2, 4.

*Tröll*, kl, um skaðvænt vopn, *trjónu t.*, rana tröll, tröllið með ranann, Mjölnir, H2, 4.

*Troð*, kl, áþrysting, Þ. 14.

*Troða*, s. (*treð*, *tróð*, *troðit*): þs. *tróðust þúngu troði*, urðu troðnar, Þ. 14.

*Trygglauss*, lo, ótrúr, ekki óhultr, ekki hættulaus, H1, 1.

*Túngl*, kl, máni; birta, *brátúngl*, gull (sjá *brá*), Þ. 14.

*Tvíviðr*, k, bogi; *t-ar týr*, bogaguð, Geirröðr, Þ. 18.

*Týframr*, lo, mjög ágætr, H1, 1. (*tý*, áho, af *tví-*, sjá annars Se. bls. 16. l. 35—7).

*Týr*, k, áss; þi. et. *tývi* = *tý*; *tvíviðar t.*, Geirröðr, Þ. 18.

*Tývi*, þi. et. af *týr*, fyrir *tý*, Þ. 18.

*Úlfr*, k, 1) vargr. 2) Fenrisúlfr: *úlfs föðor*, Loki, H1, 8. 3) ræníngi: *ú. snótar* (Iðunnar), Þjassi, H1, 2.

*Ullr*, k, áss, sonr Sifjar, stjúpsonr Þórs, H2, 2: Þ. 17.

*Undirblika*, kv, óveðrs ský: *jálfr undirbliku*, skýa gnýr, þruma, Þ. 19, sjá *hneitir*.

*Upphiminn*, k, hið efra lopt, uppheimsloptið, H2, 3.

*Urð*, kv, steina-urð; *u-ar þrjótr*, jötun, Þ. 5.

*Útve*, kl, útland, útgarðar: *útves jólnir*, jötun, Þ. 12.

*Vafrevði*, k, flögrandi eldr, lopteldr (af *vafra*, flögra, og *evði* = *uði*, eldr): *v-a hregg*, eldíngaveðr, þrumuveðr, *húfr v-a hreggs*, eldíngaskip, kerra Þórs, hennar *stjóri*, Þór, Þ. 14.

*Valköstr*, k, valdýngja, valr á vígvelli: *bára v-ar*, blóð, H1, 3.

*Valrúgr*, k, valkorn, skotvopnadrífa, skot: *látr v-ar*, skjöldr, *eldr* skjaldar, sverð, Þ. 19.

*Vamr*, k, vomr, ill mk; *v. glamma stöðvar* (fjalla), jötun, Þ. 10.

*Var-a*, var ekki, H1, 2. 3.

*Vara*, kv., ásynja, ss. *vâr*, *vör*, sjá *vǫro*..

*Varna*, s. (*-aða*, *-at*), verja; gsk, *varnendr goða*, verjendr g., um Óðin, Loka og Hæni, H1, 4.

*Varr*, k, vörðr, verjandi: *v. vögna myrkbaka reinar hreins* (jötna), jötun, H1, 3.

*Varra*, kv, sjór: *hjalt vorru*, kúla sjóar, steinn, fjall; *nanna vorru hjalts*, tröllkona, Þ. 5.

*Ve*, kl, goð: *hildar ve*, orustu goð, valkyrja, *hlýr hildar ves*, skjöldr, H1, 1.

*Ve*, kl., bústaðr, sjá *ginnjúnga ve*, *útve*.

*Veggr*, k, í húsi, sjá *fletbjörn*.

*Vegtaug*, kv, band til að hefja með, kasta með, skot-

reim, slaunguband *(vega, taug)*: *þrjótr v-ar*, mikill skotmaðr, um Geirröð jötun, Þ. 17.

*Vegþverrir*, k, sá sem lætr veg (sæmd), þverra: *v. nönnu vorru hjalts*, (tröllkonu), Þór, Þ. 5.

*Veiðr*, k, fyrir *Veïðr* = *Veoðr*, Þór, H1, 11.

*Væl*, kv, vèl, bragð; *vælum*, með brögðum, H1, 11.

*Vèla*, s., gabba; þsk, *vèltr*, gabbaðr, H1, 11.

*Vèlsparr*, lo, vèlalaus, grannlaus, H1, 4.

*Vændr*, lo, vanr: *bræði v.*, bráðlyndr, fljótr til reiði, Þ. 4. (getr og verið þsk af *væna*, telja ehn líklegan til ehs).

*Ver*, kl, sjór: *v. gaupu*, jörð, land *(sær dýra*, Se, 195, 10), Þ. 5.

*Vers*, kl, vers (lat. *versus)*. 2) saungr, rödd, hljóð: *v. dreyra*, blóðrödd, feigðarboði, Þ. 4.

*Verða*, s. *(verð, varð, orðit)*, hljóta. 2) þurfa: *varð-at*, þurfti ekki, H2, 4.

*Vígfrekr*, lo, vígfús, drápgjarn, H1, 4.

*Vigg*, kl, eykr: *veggjar v.*, hús, garðr, *veggjar v. Geirröðar*, Geirraðargarðar, Þ. 1.

*Vígligr*, lo, vígbúinn, H2, 3.

*Víkingr*, k, hermaðr, Þ. 8.

*Vikr*, k, vikrkol: *v. stála*, hein, H2, 6.

*Vilgi*, ao *(vil*, vel; *-gi*, neit.), víst ekki, eingan veginn: *v. tryggr*, ótryggr, ótrúr, Þ. 1.

*Víngnir*, k, jötun; *herja v-is*, tröllkona, H2, 6.

*Víngrögnir*, k; *v. vagna* fyrir *rögnir víngvagna*, Óðinn jötna, jötun (af *víngvögn*, kv, = *vengis vögn*, hvalr jarðar, tröll) H1, 4.

*Vinna*, s. *(vinn, vann, unnit)*, gera; er haft sem sagnarfyllíng með nút. nh., gsb. og þsk; *vann fetrunnar hlaupár* = óð árnar, Þ. 5.

*Vögn*, kv, hvalr, vagnhvalr; e. mt. *vagna* og *vögna*. Í jötna kenn., *vögn myrkbaka hreins reinar*, hvalr fjalla, jötun, H2, 3; *víngvögn*, hvalr jarðar, sama, sjá *víngrögnir*.

*Völlr*, k, jörð: *dólgr v-ar*, óvinr jarðar, jötun, H1, 6.

*Vǫndr*, lo, ss. *vændr*, sjá *bleyðivǫndr*.

*Vǫro*, e. et. af *vara* = *vàr*, *vör*, ásynja, sjá *þrymseil*.

*Vorru*, e. et. af *varra*, sjór, Þ. 5.

*Ymsi*, k, jötun (myndað af *ýmir*); *ymsa kind*, jötun eða jötnar, Þ. 2.

*þá*, 1. et. þát. frsh. af s. *þiggja*, fá að gjöf, H1, 1. 13.

*þarri*, 3. et. þát. frsh. af s. *sjá*, fyrir *sá* (*þ* = *s*), viðlíka og *sleri* = *sló*, af *slá*, H2, 3.

*þats*, sdr. fyrir *þat es*, það er, H1, 13.

*þeir* = *þer* = þær, H2, 7.

*þeirs* = *þers* = *þars*, sdr. fyrir *þar es*, þar er, þar sem, Þ. 13.

*þekkilegr*, lo, fagr, tíguglegr, um Óðinn, Hl, 5.

*þer* = þar, Þ, 14.

*þíng*, kl, mót, samkoma, Hl, 10.

*þjórhlutr*, k, stykki, limur af uxa, Hl, 5.

*þjóstbrjóst*, kl, þjóstugt brjóst, reiði, heiptarhugr, Þ. 16.

*þjóðá*, kv, stórvatn, mt. *þjóðár*, Þ. 5.

*þollr*, k, trè, eik, Hl, 3.

*þorn*, k, jötun (eins og *þurnir* = *durnir*): *þorns niðjar*, *barn*, jötnar, jötun, Þ. 2. 7.

*þornrann*, kl, hús jötuns, hellir, Þ. 13.

*þrámóðnir*, k, sá sem elskar, saknar ákaft: *þ. þrúðar*, Þór, faðir Þrúðar, Þ. 16.

*þriði*, k, Óðinn, Þ. 2.

*þrjótr*, k, sá sem þrávalt fer með ehð: *þ. vegtaugar*, skotmaðr, um Geiröð, Þ. 17. *þ. urðar*, jötun, Þ. 5, sjá og *jormunþrjótr*.

*þróttr*, k, þrek; *steinn þ-ar*, hjarta, Þ. 10.

*þrúng*, kv., Freya (hin harmþrúngna), e. et. *þrúngvar; lángvinr þ-ar*, Þór, Þ. 16.

*þrúðr*, dóttir Þórs, Þ. 16; henni hafði Hrúngnir stolið (Se. bls. 88. l. 10).

*þrymseil*, kv, bogastreingr (*þrymr*, bogi; *seil*, band): *vara þ-ar*, bogastreings gyðja, veiðigyðja, Skaði, hennar hvalr, dýr, uxi (Se. bls. 16. l. 7. 8), Hl, 5.

*þrýsta*, s., með þi., þreyngja að ehm, kúga ehn, Þ. 2.

*þurnir*, k, jötun (ss. *durnir*, sbr. *þorn*), Þ. 17.

*þverrir*, k, sá sem lætr þverra, sá sem eyðir: *þ. þorns barna* (jötna), Þór, Þ. 7, sjá *vegþverrir*.

*þylja*, s. (*þyl*, *þulda*, *þulit*), kveða, Þ. 3.

*þyrma*, s. (*-i*, *ða*, *t*), vægja; *þyrmði-t*, vægði ekki, H2, 3.

*þyrri*, 3. et. þát. aflh. af s. *þverra* (*þverr*, *þvarr*, *þorrit*), hætta, láta af, Þ. 7.

---

## Eptirmáli,

Þó þessi tvö brot af Haustlaung og drápan Þórsdrápa sèu víða mjög fornyrt og torskilin, og sumstaðar enn óljós, þá er þó tvent, sem gerir þessi kvæði jafngreiðari aðgaungu en sumar hverjar lausavísur í Se.: fyrst það, að aðalefni þessara kvæða er framsett í sundurlausri ræðu í Se. sjálfri (bls. 45—6 og 56—61); það annað, að öll þessi kvæðabrot eru áður ítarlega útskýrð á latínu af rektor Skúla Þórðarsyni Thorlacius í Antiquitat. boreal. Observat. miscell. spec. 6. et 7. Þó þarf sá, sem vill fást við þessi kvæði, að athuga tvent þessu viðvikjandi: 1) að hvorki er sagan í Se. eingaungu tekin úr þessum kvæðum, nè kvæðin gerð eptir sögunum í Se., heldur geingur

hvort fyrir sig sína götu; þess vegna er getið um margt í Se., sem ekki er getið um í þessum kvæðabrotum, og aptur minnast kvæðin á sumt, sem sagan í Se. getur ekki um (t. d. hvernig Loki ginti þór til Geirröðargarða); og jafnvel sýnist frásagan í Se. að fylgja sumstaðar einhverjum eldri kvæðum, en þessi eru, sem ráða mætti af tveimur vísum með ljóðahætti, sem eignaðar eru þór á bls. 60. og 61. 2) að textinn í þessum kvæðum er eptir nýustu útgáfum Se. miklu nær beztu skinnbókum, og þess vegna miklu færri getgátur og breytíngar teknar upp, en í texta þeim, sem Thorlacius bjó til.

Af höfundum þessara kvæða er þjóðólfur kunnari, en Eilífur. þjóðólfur hvinverski (frá Hvini, hèraði eða bæ á Lista í Egðafylki, næst fyrir vestan Líðandisnes í Noregi) var norrænn maður, ástvinur og skáld Haralds konúngs hárfagra. Hann fóstraði Guðröð ljóma, son Haralds konúngs og Snæfríðar finnsku, og þegar konúngur rak Snæfríðarsonu frá sèr, sætti þjóðólfur konúng við þá (Hkr. Har. hárf. kap. 26. 37). Skáldatal segir, að þjóðólfur hafi kveðið um Rögnvald heiðum hærra, Harald hárfagra, þorleif spaka, Hákon jarl Grjótgarðsson og Strútharald jarl. Af kvæðum hans er til: 1) Ýnglíngatal um Rögnvald heiðum hærra. 2) flokkur um Hafursfjarðarorustu[1]. 3) Haustlaung, dróttkveðið kvæði, þar af eru til 2 brot, bæði samtals 20 erindi. þetta kvæði er þakkarkvæði. Tilefni til kvæðisins er það, að höfðíngi nokkur að nafni þorleifur (H1, 1) hafði gefið þjóðólfi skjöld steindan, mikla gersemi, og voru dregnar á skjöldinn með litum ýmsar goðasögur (H1, 7: 2, 13). Í þakklætis skyni kvað þjóðólfur um myndir þær, er málaðar voru á skjöldinn, því hann segir (og það held eg sè upphaf kvæðisins) H1, 1: „Með hverju á eg að launa skjöld þann, er höfðínginn þorleifur gaf mèr?“ þessi þorleifur er að öllum líkindum þorleifur hinn spaki, sem var uppi á dögum Hálfdanar svarta (kap. 7) og Haralds hárfagra (kap. 25), og ráðgjafi beggja þeirra.

Um Eilíf Guðrúnarson vita menn næstum ekkert. Skáldatal segir, að hann hafi (ort um, eða) verið á dögum Hákonar jarls, og er það líklegt, að hann hafi lifað í heiðni, og kristnazt svo, sjá Se. bls. 92, og Edda telur hann þar með fornskáldum, eins og Skapta þóroddsson (lögsögum. frá 1004—1030). Fremur ætla jeg að hann hafi verið íslenzkur, en norrænn; því eg held, að eins lítilfjörleg vísa að efninu til, og vísan er, sem honum er eignuð í Se. bls. 183,1, hefði trauðlega borizt híngað og viðhaldizt hèr, ef hún hefði verið gerð af norrænum manni í Noregi. Skúli Thorlacius heldur, að Eilífur Guðrúnarson og Eilífur Kúlnasveinn sè einn og sami maður, en mèr finnst æði ólíkur blær á kveðskap þeirra, og held eg sá síðar nefndi Eilífur sè góðum mun ýngri.

Hèr er ekki unnið annað að þessum kvæðum, en að vísurnar eru færðar í röð, og flest merkisorð útþýdd eptir stafrófsröð. Skammstafanir málsorða þurfa í glósnakverum, en þar gleymdist mèr að til færa: ehm, ehn, ehs, ehð, = einhverjum, einhvern, einhvers, eitthvað.

1) Heimskríngla (Har. hárf. kap. 19) eignar þetta kvæði þorbirni hornklofa; en bæði Fagurskinna (bls. 8—9), Snorra Edda (bls. 2) og Fornms. 10, 190—1 eigna það þjóðólfi.

Reykjavík í júním. 1851.

*S. Egilsson.*

# Skólaskýrsla

fyrir Reykjavíkur lærða skóla árið 1850—1851,

af dr. theol. rektor S. Egilssyni.

Sökum ósiða þeirra, er leiddu af uppþoti því, er varð í skólanum 1850 (hvar um skýrsla var send til kennslustjórnar ráðherrans bæði af þá verandi yfirstjórn skólans og rektor), var þessum 5 piltum vikið burt úr skóla fyrst um sinn: eptir úrskurði kennsluráðherrans frá 18. maí 1850, Arnljóti Ólafssyni; eptir skipun yfirstjórnarinnar og atkvæðum rektors frá 15. júlí s. ár, Steffáni Þ. Thorsteinsen, Steffáni Pèturssyni, Magnúsi Jónssyni frá Felli, Theódór Guðmundssyni. Þessir 13 piltar yfirgáfu skólann: Benedikt Sveinsson, Haldór Guðmundsson, Björn Pètursson, Steffán Björnsson, Eggert Magnússon Vaage, Sigmundur Pálsson, Bergur Ólafsson Thorberg, Sigurður L. Jónasson, Magnús Blöndal, H. Theodor Thorsteinsen, Benedikt Gabríel Jónsson, Sigurður Helgason, Geir Vídalín. Af þessum 18 piltum sóktu 11 til rektors um leyfi til að gánga undir burtfararpróf 1851, sem síðar skal getið. Þeir 7, sem ekki hvurfu aptur, voru: Benedikt Sveinsson, Steffán Björnsson, Björn Pètursson, Benedikt Gabríel, Sigmundur Pálsson, Geir Vídalín, Theódór Guðmundsson.

Þ. 22. júlí 1850 var 10 nýsveinum veittur skóli af yfirstjórninni, herra greifa Trampe og herra biskupi H. Thordersen; þessir voru: 1) Ólafur Þorsteinn Oddsen frá Hofi í Vopnafirði; 2) Guðmundur Pálsson frá Ferjubakka í Mýrasýslu (hann var tekinn aptur burt úr skóla þ. 26. marz 1851); 3) Páll Pálsson frá Hörgsdal í Vesturskaptafellssýslu; 4) Torfi Magnússon, frá Eyvindarhólum í Rángárvallasýslu; 5) Gunnlaugur Þorvaldur

Steffánsso, frá Mosfelli í Gullbríngusýslu; 6) Ólafur Hannesson Johnsen, frá Reykjavík; 7) Oddur Vigfús Gíslason, frá Reykjavík; 8) Steinn Torfason, frá Reykjavík; 9) Einar Jafetsson, frá Reykjavík; 10) Þorvaldur Ásgeirsson, frá Lambastöðum í Gullbríngusýslu.

Þ. 1—3. og 5. ágúst 1850 geingu 4 lærisveinar undir hið ófullkomna burtfararpróf: Bjarni Sigvaldason, Jóhannes Haldórsson, Jón Bjarnason, Baldvin Jónsson. Sigurgeir Jakobsson ætlaði og sömu leið, en sýktist fyrir prófið. Þetta próf var haldið af kennurum skólans í þessari röð:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. ágúst, | f. m. | frá kl. | 9, | latínskur stíll. |
| | e. m. | —— | 3, | íslenzk ritgjörð. |
| | — | —— | 6, | steinafræði. |
| 2. — | f. m. | —— | 9, | latína munnleg, griska. |
| | e. m. | —— | 3, | danskur stíll. |
| | — | —— | 6, | enska. |
| 3. — | f. m. | —— | 9, | þýzka, eðlisfræði, talnafræði. |
| | e. m. | —— | 3, | danska, |
| | — | —— | 5, | trúarfræði með biflíusögu og N. T. |
| 5. — | f. m. | —— | 9, | sagnafræði, landafræði, rúmfræði. |
| | e. m. | —— | 3, | skrifleg útleggíng á latínu. |

Prófsfulltrúar voru settir af yfirstjórninni, herra prófessor P. Pètursson, og herra dómkirkjuprestur Á. Jónsson.

# Einkunnatafla.

| Nöfn. | ísl. | dsk. | þýzk. | Latina skrifl. | Latina ml. | grisk. | ensk. | trfr. | saga. | lfr. | tlfr. | rúmf. | stfr. | eðlfr. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| B. Sigvaldason . . . . . | vel | vel | vel | vel | dáv. | dáv. | dáv. | vel | dáv. | dáv. | dáv. | ág. | dáv. | dáv. |
| J. Haldórsson . . . . . . | vel | vel | vel | vel | vel | dáv. | vel | sæml. | vel | vel | dáv. | sæml. | vel | dáv. |
| J. Bjarnason . . . . . . . | vel | vel | vel | sæml. | vel | vel | vel | dáv. | vel | vel | ág. | dáv. | dáv. | ág. |
| Baldvin Jónsson . . . . . | vel | vel | vel | vel | vel | vel | vel | dáv. | vel | vel | vel | dáv. | vel | vel |

Reykjavík þ. 5. ágústm. 1850.

*P, Pètursson. Á. Jónsson.*

*S. Egilsson. H. Scheving. B. Gunnlögsen,*

*J. Sigurðsson. H. K. Friðriksson. H. Árnason.*

Sigurgeir Jakobsson gekk undir próf þ. 11. og 12. sept., og fèkk þessar einkunnir:

| | | | | | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Sigurgeir Jakobsson . . . | vel | vel | vel | vel | dáv. | dáv. | vel | sæml | vel | sæml. | sæml. | sæml. | vel | vel |

Reykjavík 12. sept. 1850.

*P. Pètursson. A. Jónsson.*

*S. Egilsson. H. Scheving. B. Gunnlögsen.*

*J. Sigurðsson. H. K. Friðriksson. H. Árnason.*

Þ. 1. októb. var skóli settur af rektor. Efni ræðu hans var um samband milli dygðar og þekkíngar. Eptir að búið var að prófa nýsveina, var gerð þessi bekkjaskipun:

Þriðja bekkjar efri deild (3*b*): 1) Jakob Benediktsson. 2) Jón Þorleifsson. 3) Steingrímur Bjarnason Thorstensen.

Þriðja bekkjar neðri deild (3*a*): 1) Helgi Einarsson. 2) Jón Aðalsteinn Sveinsson. 3) Jón Jónsson eldri. 4) Sigurður Eiríksson. 5) Jón Björnsson. 6) Magnús Jónsson frá Víðimýri. 7) Jón Melsted. 8) Jón Thorarensen. 9) Steffán Thorarensen. 10. Bjarni Magnússon. 11. Jón Jónsson (frá Barði). 12. Haldór Melsted. 13. Þorvaldur Pètursson Stephensen. 14. Magnús Hannesson Stephensen. 15. Gunnlaugur Blöndal.

Annar bekkur: 1. Ísleifur Einarsson. 2. Lárus Eðv. Sveinbjörnsen. 3. Jón Benediktsson. 4. Jón Guttormsson. 5. Jón Jónsson ýngri. 6. Sæmundur Jónsson. 7. Davíð Guðmundsson. 8. Þorsteinn Þórarinsson. 9. Guðjón Hálfdánsson. 10. Ólafur Finsen. 11. Magnús Ólafsson Stephensen. 12. Magnús Magnússon Stephensen. 13. Eiríkur Magnússon. 14. Ólafur Þorsteinn Oddsen. 15. Hjörleifur Einarsson. 16. Magnús Pètursson Stephensen. 17. Steffán Steffánsson Stephensen.

Fyrsti bekkur: 1. Jón Jakobsson. 2. Þorvaldur Jónsson. 3. Páll Pálsson. 4. Ólafur Hannesson Johnsen. 5. Oddur Vigfús Gíslason. 6. Gunnl. Þorvaldur Steffánsson. 7. Steinn Torfason. 8. Guðmundur Pálsson. 9. Þorvaldur Ásgeirsson. 10. Einar Jafetsson. 11. Torfi Magnússon.

Auk þessara skólasveina feingu 4 lærisveinar leyfi til að hlýða á kennsluna í kennslutímunum: Christopher Trampe, Jörgen Trampe, James Bjering, Bertel Gunnlögsen, allir frá Reykjavík. Tala lærisveinanna í skólanum var þá í byrjun skólaársins: 50 lærisveinar.

## Kennarar.

Eptir brèfi yfirstjórnarinnar frá 31. októb. til rektors hafði yfirkennari dr. Scheving feingið lausn frá yfirkennara embættinu frá 1. okt. 1850. Hann hafði verið undirkennari við skólann á Bessastöðum frá 1. okt. 1810 til 30. sept. 1846, og yfirkennari við skólann í Reykjavík frá 1. okt. 1846 til 30. sept. 1850, og þjónaði í því embætti til 31. októb. það ár. Hann hafði þannig verið við skólann í full 40 ár. Sama dag (31. okt.) setti yfirstjórnin Cand. philos. Gísla Magnússon sem kennara

við skólann í Schevings stað í latínu, en tók sem tímakennara kand. Gísla Jóhannesson í dönsku í 3 fyrstu bekkjunum, og stúdent Jón Árnason í sagnafræði í 1. bekk, og í danskri bókmentasögu í 3. bekk.

## Skólakennsla.

*a)* stundatal kennenda á viku hverri.

S. Egilsson, dr. theol., rektor: Griska 5 stundir í 2. bekk, 5 st. í 3*a*, 6 st. í 3*b* bekk, alls . . . . . . . . . . 16 st.

B. Gunnlögsen, R. af Dbr., 1. Aðjúnkt: *a)* Reikníngur, 3 st. í 1. b. *b)* Talnafræði, 2 st. í 2. b., 2 st. í 3*a* og 2 st. í 3*b*. *c)* Grasafræði, 2 st. í 2. bekk. *d)* Rúmfræði, 1 st. í 1. bekk, 2 st. í 2. bekk, 3 st. í 3*a* og 3 st. í 3*b*. *e)* Eðlisfræði, 2 st. í 3*a*, 2 st. í 3*b*; alls . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 24 -

Jens Sigurðsson, Cand. theol., 2. aðjúnkt: *a)* Trúarfræði, bífliusaga og útl. N. T., 3 st. í 1. bekk, 2 st. í 2. b., 2 st. í 3*a* og 2 st. í 3*b*. *b)* Sagnafræði, 3 st. í 2. b., 1 st. í 3*a* og 2 st. í 3*b*. *c)* Landafræði, 3 st. í 1. b., 2 st. í 2. b., 2 st. í 3*a* og 1 st. í 3*b*. *d)* Danskur stíll, 1 st. í 3*a*; alls . . . . . . . . . 24 -

Haldór Kristján Friðriksson, Cand. philos., 3. aðjúnkt: *a*) Íslenzka, 2 st. í 1. b., 2 st. í 2. b. og 1 st. í 3*a*; íslenzkur stíll, 2 st. í 1. b., 2 st. í 2. b., 1 st. í 3*a*; Háttatal, 1 st. í 3*b*; ísl. ritgjörð, 1 st. í 3*b*. *b)* Danskur stíll, 1 st. í 2. b. *c)* Þýzka, 2 st. í 1. b., 3 st. í 2. b., 3 st. í 3*a* og 1 st. í 3*b*. *d)* Enska, 2 st. í 3*b*; alls . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . 24 -

Þar að auki hafði hann tímakennslu aukreitis í ensku, 2 st. í 2. b. og 2 st. í 3*a*.

Gísli Magnússon, Cand. philos., settur aðjúnkt: Latína, 3 st. í 1. b., 4 st. í 2. b., 5 st. í 3*a* og 6 st. í 3*b*; latínskur stíll, 2 st. í 1. b., 1 st. í 2. b., 2 st. í 3*a* og 1 st. í 3*b*; alls . . . . . . . . . . . . . . . . . 24 -

Hannes Árnason, prestur, kennari við prestaskólann, settur aðjúnkt við latínuskólann: *a)* Dýrafræði, 2 st. í 2. b. og 4 st. í 1. b. *b)* Steinafræði, 2 st. í 3*a*, og 1 st. í 3*b*; alls . . . . . . . . . . . . . . . . . 9 -

121 -

stundir á viku: 121 st.

P. Guðjonsen, organisti: Saungur, 2 st. í hverjum bekk 8 -
Tímakennari Gísli Jóhannesson, Cand. frá prestaskólanum: Danska, 2 st. í 1., 2 st. í 2., 2 st. í 3*a*; danskur stíll, 2 st. í 1. b. . . . . . . . . . . . . . . . 8 -
Tímakennari Jón Árnason, stúdent, bókavörður stiptsbókasafnsins; *a)* sagnafræði, 5 st. í 1. b. *b)* Dönsk bókmentasaga, 1 st. í 3*a* og 1 st. í 3*b;* alls 7 -

144 st.

*b)* Kennslugreinir:

| | |
|---|---|
| Íslenzka: munnleg 6 st., skrifleg 6 st. | 12 st. |
| Danska: munnleg 8 st., skrifleg 4 st. | 12 - |
| Þýzka: munnleg | 9 - |
| Enska: munnleg (auk 4 st. í tímakennslu) | 2 - |
| Latína: munnleg 18 st., skrifleg 6 st. | 24 - |
| Griska: munnleg | 16 - |
| Trúarfræði með biflíusögu og útl. N. T. | 9 - |
| Sagnafræði | 11 - |
| Landafræði | 8 - |
| Talnafræði | 9 - |
| Rúmfræði | 9 - |
| Náttúrusaga: Grasafræði 2 st., dýrafræði 6 st., steinafræði 3 st. | 11 - |
| Eðlisfræði | 4 - |
| Saungfræði og saungur | 8 - |
| | 144 st. |

## c) Tímatafla.

*frá 1. okt. 1850 til miðsvetrarprófs 1851.*

| Stundir. | Bekkir. | Mánud. | Þriðjud. | Miðvikud. | Fimtud. | Föstud. | Laugard. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 8 — 9. | 1 | danska | íslenzka | danska | íslenzka | landafræði | rúmfræði |
| | 2 | íslenzka | danska | íslenzka | danska | dýrafræði | sagnafræði |
| | 3a | rúmfræði | talnafræði | rúmfræði | talnafræði | rúmfræði | dönsk bókm. |
| | 3b | sagnafræði | steinafræði | landafræði | sagnafræði | ísl. bragarh. | ísl. ritgjörð |
| 9 —10. | 1 | latína | ísl, stíll | latína | sagnafræði | latína | sagnafræði |
| | 2 | sagnafræði | latína | sagnafræði | latína | þýzka | latína |
| | 3a | þýzka | landafræði | þýzka | sagnafræði | landafræði | þýzka |
| | 3b | talnafræði | rúmfræði | talnafræði | rúmfræði | eðlisfræði | rúmfræði |
| 10 —11. | 1 | sagnafræði | þýzka | sagnafræði | dýrafræði | sagnafræði | þýzka |
| | 2 | griska | griska | latína | griska | griska | griska |
| | 3a | latína | latína | griska | latína | latína | latína |
| | 3b | eðlisfræði | trúarfræði | ebreska | ebreska | ebreska | trúarfræði |
| 11¼—12. | 1 | trúarfræði | talnafræði | trúarfræði | talnafræði | trúarfræði | talnafræði |
| | 2 | talnafræði | trúarfræði | þýzka | trúarfræði | talnafræði | landafræði |
| | 3a | griska | griska | steinafræði | griska | steinafræði | griska |
| | 3b | latína | latína | latína | latína | latína | latína |

## c) Tímatafla

*frá 1. okt. 1850 til miðsvetrarprófs 1851.*

| *Stundir.* | *Bekkir.* | *Mánud.* | *Þriðjud.* | *Miðvikud.* | *Fimtud.* | *Föstud.* | *Laugard.* |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 12—1. | 1 | lat. stíll | saungur | lat. stíll | dansk. stíll | saungur | dansk. stíll |
| | 2 | saungur | ísl. stíll | rúmfræði | lat. stíll | rúmfræði | saungur |
| | 3a | ísl. stíll | lat. stíll | dansk. stíll | saungur | lat. stíll | eðlisfræði |
| | 3b | griska | dönsk bókm. | griska | þýzka | dansk. stíll | lat. stíll |
| 1 —2. | 1 | ísl. stíll | landafræði | dýrafræði | dýrafræði | dýrafræði | landafræði |
| | 2 | dýrafræði | grasafræði | landafræði | grasafræði | þýzka | dansk. stíll |
| | 3a | trúarfræði | danska | eðlisfræði | trúarfræði | danska | saungur |
| | 3b | saungur. | griska. | saungur. | griska. | griska. | griska. |
| *Eptir miðsvetrarpróf var 2 síðustu tímunum þannig breytt, til að fá samsaung tvisvar í viku:* | | | | | | | |
| 12—1. | 1 | lat. stíll | dansk. stíll | lat. stíll | dansk. stíll | saungur | saungur |
| | 2 | sanngur | þýzka | rúmfræði | lat. stíll | rúmfræði | saungur |
| | 3a | ísl. stíll | lat. stíll | dansk. stíll | eðlisfræði | lat. stíll | eðlisfræði |
| | 3b | griska | dönsk bókm. | griska | þýzka | dansk. stíll | lat. stíll |
| 1 —2. | 1 | ísl. stíll | landafræði | dýrafræði | dýrafræði | dýrafræði | landafræði |
| | 2 | dýrafræði | grasafræði | landafræði | grasafræði | ísl. stíll | dansk. stíll |
| | 3a | trúarfræði | danska | saungur | trúarfræði | danska | saungur |
| | 3b | saungur. | griska. | saungur. | griska. | griska. | griska. |

### Kennsla:

#### 1) Sveinbjörn Egilsson:

1) í öðrum bekk 1. og 4. bók af Senofons Anabasis, og af Heródóts 1. bók, sögu Sýrusar, 95—130. kap. 2) í 3*a*, Heródóts 3. bók, 1—160. kap., og 18. bók af Homeri Ilías. 3) í 3*b*, í októb. til desemb. 1850, 1., 2. og 4. bók af Senofons Memorabilia Socratis; frá jan. 1851 til miðsvetrarprófs, 1. og 2. bók af Ilías (Iíons-kviðu); þaðan frá til 21. marz, 3., 4., 6. og 7. bók af sama kvæði; frá 22. marz, Herodóts 1. bókar kap. 1—160; frá 8. apr., 1. og 2. bók af Anabasis. Farið var yfir hina grisku bókmentasögu til Alexanders mikla, eptir Tregders „Haandbog i den græske Literaturhistorie".

#### 2) Björn Gunnlaugsson.

1. Reikníngur í 1. bekk eptir Úrsíns reikníngsbók, og sèr í lagi æfingar í talníngu, það er: að lesa úr tölum, og skrifa þær lesnar, þar næst æfingar í hinum svo kölluðu 4 reikníngshöfuðgreinum, í heilum tölum og brotnum, og loksins æfingar í þríliðu ýmiskonar talna.

2. Rúmfræði í öllum bekkjum, og sèr í lagi í 1. bekk frá upphafi 60 §§ eptir Úrsíns stærðafræði, í 2. b. 73 §§ frá upphafi, var þetta í báðum bekkjum endurfarið með yfirheyrslum. Í 3. bekk A var yfirfarið frá 113. § til enda rúmfræðinnar, ásamt með yfirheyrslum. Síðan var yfirfarin hin flata þríhyrníngafræði eptir Úrsín mest öll; þó var ekki yfirheyrt þar í. Í 3. b. B var yfirheyrsla í rúmfræðinni og þríhyrníngafræðinni.

3. Talnafræði í 2. b. Þar í voru lesnir og síðan endurfarnir 37 §§ af Úrsíns stærðafræði frá upphafi. Í 3. b. A frá § 35 til § 96 lesið og endurfarið. Í 3. b. B endurfarin talnafræðin ásamt einföldum líkíngum, allt eptir Úrsíns stærðafræði.

4. Grasafræði í 2. b. eptir Drejers Botanik frá upphafi til enda, eða hið náttúrlega grasakerfi. En ekki var yfirfarin taflan þar aptan við, er inniheldur Linneusarkerfi. Hitt var einnig endurfarið með yfirheyrslum. Þetta er hið annað ár, er grasafræði hefur verið hèr lesin.

5. Eðlisfræði í 3. b. A eptir Örsteds eðlisfræði frá § 177 til § 243. Þetta var með fyrirlestrum yfirfarið, og þar af var síðan endurfarið með yfirheyrslum frá § 177 til § 188. En þar á eptir var byrjað frá upphafi eðlisfræðinnar með yfirheyrslum, og því haldið áfram til § 27. Í 3. b. B var með fyrirlestrum

yfirfarið frá § 151 til § 241, en síðan yfirheyrt frá upphafi með köflum, eptir því sem þurfa þókti.

3) Jens Sigurðsson.

1, í bekknum, 3. B með þeim skólasveinum, sem útskrifast áttu, *a)* í sögu: mikinn hluta mannkynssögunnar, eptir því sem varð við komið, eptir Koefod — 2 stundir í viku, *b)* mikinn hluta landafræði Munthes — 1 stund í viku, *c)* í trúarfr.: Jóhannesar guðspjall á frummálinu og trúarlærdómana eptir fyrirlestrum þeim, sem þeir áður höfðu haft í skólanum — 2 stundir í viku, *d)* þar að auk hefur hann leiðrètt hjá þessum bekk 1 danskan stíl í viku, og hefur stílsefni verið tekið sumpart úr íslenzkum bókum, svo sem Vinagleði, sumpart úr latínskum rithöfundum, svo sem Sallustius og Justinus.

2, í bekknum 3. A, *a)* í landafræði: með þeim eldri skólasveinum bekkjarins, sem áttu fyrir hendi fyrra hluta burtfararprófs, yfirfór hann alla landafræðina eptir Munthe; en með hinum ýngri yfirfór hann Vesturálfu og svo löndin í vesturhluta og suðurhluta Norðurálfu — 2 stundir í viku, *b)* í sögu: með hinum eldri Frakklandssögu eptir Koefod, með hinum ýngri sögu 16. aldar eptir Weber, *c)* í trúarfr.: með hinum eldri, hinn síðari hluta siðfræðinnar, sem horfið var frá veturinn áður; með hinum ýngri trúarfræðiskaflana um sköpunina og um syndina; fyrirlestrar lagaðir eptir Gaðs kennslubók. Með hvorutveggjum sameiginlega var lesin Herslebs biflíusaga frá dauða Salomons og til 3. tímabils í guðspjallssögunni, — 2 st. í viku, *d)* leiðrètt danskan stíl á hverri viku; stílsefni hefur verið úr Vinagleði og Kvöldvökum.

3, í 2. bekk, *a)* í sögu: með eldri deild bekkjarins er lesið tímabilið frá því siðabótin hófst og þar til Loðvík 14. kom til ríkis; en með hinni ýngri deild miðaldasagan frá því þjóðflakkið hófst og til siðabótarinnar, hvorutveggju eptir Webers bók — 3 st. í viku, *b)* í landafræði: með báðum deildum lesnar Austurálfa, Suðurálfa, Vesturálfa og Eyaálfa eptir Munthe — 2 st. í viku, *c)* í trúarfræði: trúarfræðiskaflinn um sköpunina, um syndina og um forsjónina; svo í biflíusögu Herslebs bók frá upphafi til herleiðíngarinnar — 2 st. í viku.

4, í 1. bekk, *a)* í landafræði: þessi lönd Norðurálfu, Rúsland, Preussen, Þýzkaland, Niðurlöndin og Belgia, stóra Bretland, Frakkland, Spán og Schveitz, þar að auk var yfirfarin

landafræði hins gamla heims eptir bók Königsfeldts, *b)* í trúarfræði: útskírður mestur hluti barnalærdómsins, og Herslebs biflíusaga lesin frá upphafinu og allt til herleiðíngarinnar. Allt þetta hefur hann yfirfarið á líkan hátt því, sem hann skírði frá stuttlega í skólaskýrslu ársins 1848 og 1849.

4) Haldór Kr. Friðriksson.

A, Í þriðja bekkjar efri deild hef eg lesið

1, íslenzku einn tíma í viku; fór eg með lærisveinum yfir „Háttalykil" Snorra Sturlusonar, og skírði fyrir þeim vísurnar og annað er torskilið er í honum, hvort heldur var orð eða orðmyndir.

2, lèt eg þá rita íslenzka ritgjörð einu sinni í viku, yfir ýms efni, sem eg til tók; sömdu þeir ritgjörðirnar optast nær í tímanum, en þó nokkrum sinnum utan tíma.

3, þýzku las eg með þeim einn tíma í viku; las eg með þeim framan af *„Bruchstücke. Dritte Sammlung"* í *„Tydsk Læsebog, udgiven af Dr. Peder Hjort"*.

4, í tímatöflunni voru þrjár stundir ætlaðar handa ebresku í þessari deild; en með því enginn þeirra þriggja lærisveina, sem í þessari deild voru, lásu ebresku, heldur ensku í hennar stað, þá þótti nóg að lesa með þeim tvær stundir í ensku; byrjaði eg á 29. kapítulanum í „Vicar of Wakefield", og las bókina út; síðan las eg með þeim nokkuð framan af *„Night and Morning"* eptir *Bulwer*. Þriðja tímann hafði eg til þess, að láta þá gjöra þýzka stýla, til að festa þá í þýzkri málmyndalýsíngu.

B, Í þriðja bekkjar neðri deild hef eg

1, lagfært íslenzka stýla, einn i hverri viku; lèt eg lærisveina gjöra annanhvorn stýl í tíma, en annanhvorn utan tíma; voru stýlsefnin fyrra hluta vetrarins tekin úr ýmsum bókum, en síðari hlutann að mestu leyti úr *„Hjorts tydske Læsebog"*.

2, las eg með þeim þýzku þrjár stundir í viku; fór eg þannig með þeim yfir í *„Hjorts tydske Læsebog"* fyrra parti frá bls. 288 til bls. 312; 326—333; 382—388; 312—324; 520—550; síðasta mánuðinn las eg með lærisveinum í þessari bekkjardeild, mestan hluta þess, sem er á óbundinni ræðu í síðari hluta tèðrar lestrarbókar.

3, las eg með lærisveinum ensku, tvær aukastundir í viku,

og fór þannig yfir með þeim í „*Vicar of Wakefield*", frá upphafinu og allt fram að 16. kapítulanum.

C, Í öðrum bekk hef eg lesið

1, íslenzku, tvær stundir í viku; las eg fyrst með þeim málmyndalýsíngu þá hina íslenzku, sem stendur framan við lestrarbók mína; skýrði hana og jók, eptir því sem mèr þótti við eiga; síðan las eg með þeim framan af Þórðar sögu hreðu allt fram að 41. bls. í útgáfu þeirri, er „*det nordiske Literatur-Samfund*" hefur látið prenta 1848; las eg þennan kafla með þeim svo, að eg hafði stöðugt auga á málmyndalýsíngunni, og jafnframt mismuninum á máli voru núna og fornmáli voru.

2, leiðrètti eg hjá þeim íslenzka stýla tvisvar í viku; lèt eg lærisveina í þessum bekk eins og í 3. bekkjar neðri deild gjöra annanhvorn stýl í tímanum, en annanhvorn utan tíma; stýlsefnin voru að mestu leyti tekin úr því, sem þeir lásu í þýzkunni.

3, las eg þýzku með þeim þrjár stundir í viku; lèt eg þá fyrst lesa upp málmyndalýsíngu *Fr. Bresemanns*, og því næst las eg með þeim í „*P. Hjorts tydske Læsebog*" í fyrra parti hennar, frá bls. 53 og til bls. 81, og frá bls. 113 til bls. 145.

4, lagfærði eg hjá þeim danska stýla einu sinni í viku; lèt eg lærisveina gjöra annanhvorn stýl í tímanum, en annanhvorn utan tíma.

5, las eg ensku með þeim tvær aukastundir í viku; las eg þeim fyrst fyrir nokkrar reglur fyrir framburði enskunnar; síðan las eg með þeim helztu atriði málmyndalýsíngarinnar, og að því búnu las eg með þeim þrjá fyrstu kapítulana framan af „*Tales of grandfather*, eptir *W. Scott*".

D, Í 1. bekk las eg með lærisveinum

1, íslenzku tvisvar í viku. Lèt eg þá fyrst læra málmyndalýsíngu þá, sem stendur framan við lestrarbók mína; því næst lèt eg þá lesa í 9. ári Fjölnis, frá bls. 9, og til bls. 36, en lèt þá jafnframt lesa upp aptur málmyndalýsínguna, og heimfæra hana upp á það, sem þeir lásu.

2, lagfærði eg hjá þeim íslenzka stýla tvisvar í viku; voru stýlsefnin fyrri hluta vetrarins tekin híngað og þángað, en síðari hlutann lèt eg þá snúa því, sem þeir lásu í þýzku, svona nokkurn veginn jafnóðum og þeir lásu það. Lèt eg þá, eins og aðra lærisveina, gjöra annan stýlinn í tímanum, en hinn utan tíma.

3, las eg með þeim þýzku tvisvar í viku. Lèt eg þá fyrst nema aðalatriðin í hinni þýzku málmyndalýsíngu eptir *Fr. Bresemann;* síðan fór eg að láta þá lesa dálítið í þýzku, og lagði ávallt út fyrir þeim á undan; las eg með þeim rúmlega þrjú fyrstu blöðin framan af *„Hjorts tydske Læsebog";* en jafnframt lèt eg þá í hverjum tíms lesa upp aptur kafla og kafla í málmyndalýsíngunni.

### 5) Gísli Magnússon.

Eg hef yfirfarið

*a)* í 3. bekk b: ýmsa kafla úr öllum þeim rithöfundum, er piltum í þessum bekk voru ætlaðir til burtfararprófs í vor; eg fór og yfir ýmsa kafla úr hinni latínsku málfræði eptir Madvig, svo og yfir helztu atriði hinnar latínsku bókmentasögu eptir Tregder, og yfir nokkuð framan af hinum latínsku fornfræðum eptir Bojesen. Þetta yfirfóru piltar á þeim 6 stundum, sem þar til voru ætlaðar um vikuna. Piltar í þessum bekk höfðu 1 stíl latínskan í viku.

*b)* í 3. bekk a, fór eg fyrst yfir 14 síðustu kapítulana af riti Síserós um skyldurnar; því næst fór eg yfir 2 hinar fyrstu bækur af Eneasdrápu eptir Virgil, og 355 vísuorð framan af 3. bókinni; eg lèt og pilta í þessum bekk fara yfir ýmsa kafla af hinni latínsku málfræði. Til þessarar yfirferðar hafði eg 5 stundir um vikuna. Hjá piltum í þessum bekk hafði eg 2 stíla í viku.

*c)* í 2. bekk byrjaði eg á 16. kapítula hinnar 4. bókar af sögu Sesars um Gallastríð, og fór bókina út; síðan fór eg yfir 40 fyrstu kapítulana af Vörn Síserós fyrir Róssíus frá Ameríu; með piltum í þessum bekk fór eg og yfir ýmsa kafla af hinni latínsku málfræði, einkum orðmyndafræðinni. Til þessarar yfirferðar hafði eg 4 stundir um vikuna. Í þessum bekk hafði eg 1 stíl í viku.

*d)* í 1. bekk byrjaði eg á 12. kapítula hinnar 1. bókar af Gallastríði eptir Sesar, og komst aptur að 41. kapítulanum; eg lèt og pilta í þessum bekk fara yfir ýmsa kafla af hinni latínsku orðmyndafræði. Til þessarar yfirferðar hafði eg 3 stundir um vikuna. Piltar í þessum bekk höfðu 2 stíla í viku.

Fyrir stílsefni hef eg haft ýmislegt, og hef eg optast látið pilta í hverjum bekk búa til annanhvorn stíl þá stundina,

sem þeim hefur verið ætluð til stílsins, og hef eg þá verið hjá þeim á meðan.

6) Hannes Árnason.

Í 3. bekk b, þar sem þeir voru, er áttu að skrifast út úr skólanum um vorið, var kennslan mestmegnis innifalin í því, að taka upp aptur það, sem lesið hafði verið hina fyrri vetur, og fá meiri vana í að þekkja steinanna eiginlegleika, þá er efni, útvortis eðli, mynd og lögun við koma (chemiska, mechaniska, stereometriska eiginlegleika). Hvað lögun steinanna við víkur, er chrystallographian öldúngis ómissanleg, þess vegna var hún tekin nokkurn veginn nákvæmlega. Þar við bættist æfing í að þekkja steina, einkum þá, hverra eiginlegleikar gjöra glögg og góð einkenni á stærri eða minni deildum steinaríkisins.

Í 3. bekk a, þar sem piltar voru misjafnt komnir, þar sumir höfðu verið þar 1 vetur og áttu að taka fyrri hluta burtfararprófsins um vorið, en aptur sumir voru nýkomnir upp í bekkinn úr 2. bekk, og eiga fyrst að taka fyrri hluta burtfararprófsins vorið 1852, hefði kennslan orðið óhæg, með því allir urðu að vera í sömu lestrarstofu, hefði ekki flestir getað fengið fyrirlestra frá hinum fyrri vetrum; en þar allir gátu notað sömu fyrirlestra, varð þessi óhægð ekki að neinni verulegri töf.

Kennslan varð að vera lík í 3. bekk b, og 3. bekk a, þ. e. fyrir þá, sem lásu steinafræðina til aðalburtfararprófs (dimission), og þá er lásu hana til fyrri hluta burtfararprófsins; þó tókst að öllu samtöldu betur með þá síðar nefndu, þar tíminn var ætlaður lengri, þar sem voru 2 tímar í viku, og yfirferðin varð þess vegna ánægjulegri.

Í 2. bekk var lesin dýrafræði; þar var Dreiers og Bramsens kennslubók fylgt að mestu, var þar farið yfir hryggdýrin (animalia vertebrata), nefnil., spendýr, fugla, skriðdýr og fiska: einnig var mannsins líkamabyggíng tekin í samanburði við byggíngarlag spendýranna.

Í 1. bekk var farið yfir sama og jafnmikið, sem í 2. bekk, en ónákvæmar, þar nær því allir piltar í 1. bekk voru svo ofur skamt komnir í öllu, sem og má vænta að verði á hverju ári, þar þessi bekkur er fyrir fyrstu byrjara. Þess vegna hefur það verið venja, síðan farið var að lesa náttúrusögu í skól-

anum, að dýrafræðin hefur verið höfð upp aptur í 2. bekk og tekin nákvæmar.

Kennslumátinn var yfir höfuð áþekkur í steina og dýrafræðinni: þeim almennustu, þýðíngar og yfirgripsmestu eiginlegleikum var einkum haldið föstum, og þeir raktir í þeirra ýmislega mismun gegnum hinar minni deildir. Það er eitt atriði í náttúrusögu, sem ekki er hvað minnst áríðandi, að geta sèð, hvernig einn eða fleiri eiginlegleikar í sameiníng, sem einkenna stærri eða minni deild eins náttúruríkis, rekjast í þeirra mismun og mismunandi þýðíng gegnum deildarinnar greiníngar.

7) Pètur Gudjohnsen.

Eg (Pètur Gudjóhnsen) hefi kent 6 tíma í viku í hverjum bekk, þannig, að 4 tímar, sinn í hverjum bekk, hafa í hverri viku gengið til fyrirlestra í saungfræðinni, en 2 tímar til æfíngar í samsaungvum (harmonisk Sang), þannig, að 1. og 2. bekkur höfðu annan þessara tíma sameiginlegan, en 3. og 4. bekkur hinn. Fyrirlestrana hefi eg helzt byggt á Gottfreð Webers „Theori der Tonsetzkunst" (Mainz, Paris und Antwerpeu 1830—1832), en hefi þó orðið, vegna tímans, að draga saman og stytta það, sem mèr þótti skilja mega í færri orðum framsett. Hefi eg þannig lesið yfir tónfræðina (Melodik), og leitazt við að greina og skýra hugmyndirnar: hljóð, hljómur, tón, og þar næst gefið lýsíngu á tónabyggíngunni, skýrt frá nöfnum þeirra, hæð og dýpt og teiknum þeim, sem þetta tákna. Enn fremur hefi eg leitazt við að skýra hugmyndina tóngrein, og sýna jöfnuð og mismun þeirra tóngreina, sem ólíkum nöfnum heita (stórar, litlar, stækkaðar, mínkaðar). Í rímfræðinni (Rhythmik) hefi eg lesið yfir hugmynd rímsins, eðli þess og eiginlegleika, rímtáknun, rímdeilíng, rímtegundir, áherzlu, rhythmus samsetníng ríms og rímslátt.

Af því það er næsta áríðandi, ef saungkennsla á að verka nokkra verulega breytíngu á því, sem híngað til hefur verið — en allir munu viðurkenna, að á því sè hin brýnasta nauðsyn —, að hrífa skólapilta út úr því, sem þeir hafa að undanförnu dags daglega heyrt fyrir sèr, og opna þeim nýtt og óþekkt svæði, þar sem tilfinníngin er ekki undir yfirdrottnun gamals vana, þá hefi eg ekki viljað sýngja með þeim hin íslenzku sálmalög, því reynslan hefur kent mèr, að þau sækja vonum bráðar aptur í hið gamla horf, og er því rèttast, að sýsla alls ekki við

þau, fyrri en lærisveinn getur sjálfur hjálpað sèr fram úr þeim. Eg hefi því notað til saungæfinganna safn Berggreens organista af tví-, þrí- og fjórrödduðum saungvum, sem stjórnin hefur gefið skólanum. Safn þetta er, að því leyti sem viðvíkur meðferð útgefandans á saungvunum, eitthvert hið ágætasta af sinni tegund, bæði með tilliti til fegurðar laganna, og svo einnig og sèr í lagi með tilliti til samsaungsins (harmonisk Behandling), og er því einkar hentugt til þvílíkra saungæfinga.

8) Gísli Jóhannesson.

Jeg las dönsku með lærisveinum skólans í hinum 3 fyrstu bekkjum, tvær stundir um vikuna í hverjum bekk. Í 1. bekk lásu lærisveinarnir nokkurn part af „1. Deel“ og „Nogle Fortællinger af Verdenshistorien“ í „den danske Börneven“, og voru jafnframt látnir kynna sèr „dansk Sproglære af Böjesen“; framburður, þýðíng og hinar helztu málfræðislegu reglur var það, er eg einkum tók fram við lærisveinana í þessum bekk.

Með lærisveinunum í 2. bekk fór eg yfir „Andet Afsnit“ í „den prosaiske Deel af Holsts danske Læsebog“; jafnframt og eg gætti þess, að lærisveinarnir vendust rèttum framburðar og ritmátareglum, leitaðist eg við, að vekja athygli þeirra á orðamyndun, og setníngaskipun, sem einkennileg er dönskunni.

Í 3. bekk voru lærisveinarnir látnir lesa í „den poetiske Deel af Holsts danske Læsebog“; byrjuðu þeir á kvæðunum og komust aptur að 130. bls., en ekki var farið yfir öll kvæðin, heldur mörgum slept, og þau einkum lesin, er að inntaki og málfæri þóktu taka öðrum fram, og var tilsögnin sèr í lagi látin miða til þess, að fegurðartilfinníng lærisveinanna glæddist og skilníngur þeirra á því, er í kvæðunum þókti skáldlegast og hverjum rithöfundi einkennilegast, en líka var þess gætt, að lærisveinarnir tækju eptir því, sem að orðfæri eða setníngaskipun var frábrugðið óbundinni ræðu.

Þar að auki leiðrètti eg danska stíla tvisvarsinnum í viku hjá lærisveinum í 1. bekk, og var stílsefnið tekið úr „Kvöldvökunum“ fram yfir miðjan vetur, en upp frá því úr bæklingnum: „Piltur og Stúlka“.

9) Jón Árnason

hefur lesið í 3. B. bókmenntasögu Dana frá 1000—1754,

eða út Holberg, og jafnmikið í *3ab.* Við bókmenntasöguna var helzt lögð til grundvallar „Thortsens Haandbog".

Í fyrsta bekk var yfirfarin „H. Bohrs Lærebog i den gamle Historie".

## Skólastjórn.

Fyrir skólann hafa birtar verið tvær reglugjörðir 1) frá 1846, Reglugjörð, 1—21. gr., um latínuskólann í Reykjavík, útg. í Reykjavíkurpósti, Nr. 1. októb. 1846, bls. 9—14: Nr. 2. nóv., bls. 25—31: Nr. 3. des., bls. 41—44: Nr. 4. jan. 1847, bls. 56—58. 2) frá 1850, Reglugjörð, 1—18. gr., um kennsluna og lærdómsprófin í hinum lærða skóla í Reykjavík, útg. í Lanztíðindum, 2. ár, bls. 111—114, 122—123, 129—130, 133, 141—142. Þessar reglugjörðir hafa innsendar og skipaðar verið af skólastjórnarráðinu (Directióninni og Ministerió). Auk þess voru hèr fyrst við skólann prentaðar skólareglur, samdar af kennurunum og samþyktar af yfirstjórninni, viðvíkjandi háttsemi pilta og námi utan hinna fyrirsettu kennslutíma. Kennslutímarnir hafa fyr verið sundurlausir í tvennu lagi, fyrir og eptir miðjan dag. Þetta ár hafa þeir verið samfleytt frá kl. 8—2, sem sèst af tímatöflunni; en milli kl. 11 og 12 var gefin hvíld um fjórðúng stundar. Undirbúníngstímar voru ætlaðir frá kl. 3½ til kl. 7 em., nema hvað ½ stund, kl. 5—5½, var gefin til hreifíngar og hressíngar, og aptur frá kl. 8—10. e. m. Auk umsjónarmanna á meðal pilta sjálfra í hverjum bekk, var 1. og 2. aðjúnkt til skiptis til staðar í 1. bekk til umsjónar frá kl. 3½—7, og rektor sjálfur allopt bæði þar og í 2. bekk og *3a.* Frá kl. 8—10 á kvöldin höfðu umsjón þeir aðjúnktar, sem á skólanum bjuggu. Lærisveinar auðsýndu sèrlega iðni og eptirtekt, auðsveipni og virðíngu fyrir kennurum sínum og góðri reglu og háttsemi. Í öllum yfirheyrslum voru einkunnir sèrhvers lærisveins af kennara hverjum ritaðar jafnótt í Einkunnabækur, sem fullgiltar eru af yfirstjórninni, og eru þær bækur geymdar hjá umsjónarsveini hvers bekks, og getur hver lærisveinn sèð einkunn sína í hverjum yfirheyrslutíma; í einkunnabækurnar var og teiknað siðferði og ástundun hvers lærisveins á hverri viku. Allar þessar einkunnir voru síðan við lok hverrar viku ritaðar í vitnisburðarbók þá, sem sèrhver piltur hefur, áteiknaða af rektor.

## Skólapróf:

Þ. 30. nóv., var lærisveinum raðað niður sín í milli, eptir því, sem þeim hafði gengið, frá því skólinn byrjaði í októb. Varð þá röðin þessi:

3*b* bekkur: 1) Steingrímur Bjarnason. 2) Jón Þorleifsson. 3) Jakob Benediktsson:

3*a* bekkur: 1) Jón Jónsson eldri. 2) Jón Björnsson. 3) Helgi Einarsson. 4) Jón A. Sveinsson. 5) Gunnlaugur Blöndal. 6) Sigurður Eiríksson. 7) Magnús Hannesson Stephensen. 8) Magnús Jónsson. 9) Bjarni Magnússon. 10) Jón Jónsson frá Barði. 11) Haldór Melsted. 12) Þorvaldur Pètursson Stephensen. 13) Jón Melsteð. 14) Jón Thorarensen. 15) Steffán Thorarensen.

2. bekkur: 1) Sæmundur Jónsson. 2) Hjörleifur Einarsson. 3) Magnús Pètursson Stephensen. 4) Jón Jónsson ýngri. 5) Davíð Guðmundsson. 6) Magnús Magnússon Stephensen. 7) Jón Benediktsson. 8) Steffán Steffánsson Stephensen. 9) Jón Guttormsson. 10) Lárus E. Sveinbjörnsen. 11) Guðjón Hálfdánsson. 12) Ísleifur Einarsson. 13) Þorsteinn Þórarinsson. 14) Ólafur Þ. Oddsen. 15) Ólafur Finsen. 16) Magnús Ólafsson Stephensen. 17) Eiríkur Magnússon.

1. bekkur: 1) Ólafur Hannesson Johnsen. 2) Páll Pálsson. 3) Jón Jakobsson. 4) Gunnlaugur Þorvaldur Steffánsson. 5) Þorvaldur Jónsson. 6) Oddur Vigfús Gíslason. 7) Guðmundur Pálsson. 8) Þorvaldur Ásgeirsson. 9) Steinn Torfason. 10) Torfi Magnússon. 11) Einar Jafetsson.

## 1) Miðsvetrarpróf:

Frá 27. jan. 1851 til 9. febr., fengu lærisveinar upplestrartíma undir miðsvetrarpróf, sem haldið var af kennurum skólans frá 10—15. febr. í öllu því, sem þángað til hafði verið kent; 3*b* bekkur gekk ekki undir þetta próf. Miðsvetrarröðin varð þessi:

3*a* bekkur: 1) Helgi Einarsson. 2) Jón A. Sveinsson. 3) Jón Jónsson eldri. 4) Gunnlaugur Blöndal. 5) Sigurður Eiríksson. 6) Magnús H. Stephensen. 7) Bjarni Magnússon. 8) Magnús Jónsson. 9) Þorvaldur Pètursson Stephensen. 10) Haldór Melsted. 11) Steffán Thorarensen. 12) Jón Melsted. 13) Jón Björnsson. 14) Jón Thorarensen. 15) Jón Jónsson frá Barði.

2. bekkur: 1) Jón Jónsson ýngri. 2) Lárus E. Sveinbjörnsen. 3) Sæmundur Jónsson. 4) Hjörleifur Einarsson. 5) Jón Benediktsson. 6) Jón Guttormsson. 7) Magnús P. Stephensen. 8) Magnús M. Stephensen. 9) Steffán St. Stephensen. 10) Davíð Guðmundsson. 11) Ísleifur Einarsson. 12) Guðjón Hálfdánsson. 13) Þorsteinn Þórarinsson. 14) Ólafur Þ. Oddsen. 15) Ólafur Finsen. 16) Magnús O. Stephensen. 17) Eiríkur Magnússon.

1. bekkur: 1) Ólafur Hannesson Johnsen. 2) Páll Pálsson. 3) Jón Jakobsson. 4) Þorvaldur Jónsson. 5) Gunnl. Þorvaldur Steffánsson. 6) Oddur Vigfús Gíslason. 7) Guðmundur Pálsson. 8) Þorvaldur Ásgeirsson. 9) Torfi Magnússon. 10) Steinn Torfason. 11) Einar Jafetsson.

## 2) Aðalpróf 1851.

Í brèfum frá 21. sept. og 3. okt. 1850, birti rektor yfirstjórninni það áform skólans, að 4. bekkur yrði á stofn settur og undirbúinn til næsta vorprófs 1851, samkvæmt skólareglug. 18. gr. Samþykti yfirstjórnin þ. 7. maí 1851, að 11 lærisveinar í 3*a* bekk geingi undir fyrra hluta hins fullkomna burtfararprófs, og leyfði um leið utanskólasveini Magnúsi Jónssyni frá Felli eptir bón hans að gánga undir sama próf með þeim. Eptir upplestrartíma frá 1—19. júní var aðalprófið haldið í skólanum af kennurunum þ. 20—27. júní samkvæmt fylgjandi próftöflu, er yfirstjórnin hafði samþykt, hafði hún til tekið, að þeir 11 lærisveinar, sem áttu að gánga undir fyrra hluta burtfararprófsins, í þeim 4 kennslugreinum, dönsku, þýzku, landafræði og náttúrusögu (í þetta sinn dýrafræði og steinafræði), og verið höfðu 2 ár í 3. bekk, skyldu nefnast 3*b*, en hinir í sama bekk 3*a*. Þeir 3 lærisveinar, sem gánga áttu undir hið ófullkomna burtfararpróf í júlím. (3 B), tóku ekki þátt í þessu prófi. Boðsrit skólans í þetta sinn var: Tvö brot af Haustlaung og Þórsdrápa, færð til rètts máls og útskýrð með glósum í stafrófsröð, af Dr. theol. rektor Svb. Egilssyni, Reykjavík 1851, bls. 1—32.

## Aðalpróf í Reykjavíkur lærða skóla, 20—27. júní 1851.

| Júní. | stundir. | lærdómsgreinir. | bekkir. |
|---|---|---|---|
| 20. | 8 —11, | danska, d. bókms. | 3b. |
| | 11— 2, | landafræði . . . | 3b. |
| | 3 — 5, | dýra og steinafr. | 3b. |
| | 5 — 7, | þýzka . . . . . | 3b. |
| 21. | 8 —11 | sagnafræði . . . | 2 |
| | | þýzka, steinafr. | 3a. |
| | 11— 2 | landafræði . . . | 1 |
| | | d. bókmentas. | 3a. |
| | $3\frac{1}{2}$—$5\frac{1}{2}$ | latína . . . . . . | 1 |
| | | danska . . . . . | 2 |
| | $5\frac{1}{2}$—$7\frac{1}{2}$ | danska . . . . . . | 1 |
| 23. | 8 —11. | latínsk. stíll, | 1, 2, 3ab. |
| | 11— 2 | grasafræði . . . | 2 |
| | | landafræði . . . | 3a. |
| | $3\frac{1}{2}$— 6 | trúarfr., biflíus. | 3ab. |
| | | þýzka . . . . . | 1 |
| | 6 — 7 | íslenzka . . . . | 1 |
| | | rúmfræði . . . . | 2 |
| 24. | 8 —10. | danskur stíll, | 1, 2, 3ab. |
| | 10— 2 | trúarfr., biflíus. | 2, |
| | | talnafræði . . . | 3ab. |
| | $3\frac{1}{2}$—$5\frac{1}{2}$ | talnafræði . . . | 2 |
| | | dýrafræði . . . | 1 |
| | $5\frac{1}{2}$—$7\frac{1}{2}$ | reikningur . . . | 1 |
| | | sagnafræði . . | 3ab. |
| 25. | 8 —10, | íslenzkur stíll, | 1, 2, 3ab. |
| | 10— 2 | latína . . . . . | 3ab. |
| | | þýzka . . . . . | 2 |
| | $3\frac{1}{2}$—$5\frac{1}{2}$ | sagnafræði . . | 1 |
| | | landafræði . . | 2 |
| | $5\frac{1}{2}$—$7\frac{1}{2}$ | eðlisfræði . . . | 3ab. |
| | | griska . . . . . . | 2 |
| 26. | 8 —11 | griska . . . . . | 3ab. |
| | | íslenzka . . . . | 2 |
| | 11— 2 | dýrafræði . . . | 2 |
| | | rúmfræði . . . | 3ab. |
| | $3\frac{1}{2}$—$6\frac{1}{2}$ | latína . . . . . | 2 |
| | | trúarfræði . . | 1 |

27. frá kl. 9., saungfræði og samsaungur, 1. 2, 3*ab*.

Þeir 11 skólalærisveinar sem þ. 20. júní 1851 geingu undir hinn fyrra hluta hins fullkomna burtfararprófs í áður nefndum 4 greinum, voru þessir: 1) Jón A. Sveinsson. 2) Helgi Einarsson. 3) Sigurður Eiríksson. 4) Magnús H. Stephensen. 5) Magnús Jónsson frá Víðimýri. 6) Þorvaldur P. Stephensen. 7) Jón Björnsson. 8) Jón Jónsson eldri. 9) Steffán Thorarensen. 10) Jón P. Melsted. 11) Jón B. Thorarensen. Hèr við bættist, eptir leyfi yfirstjórnarinnar frá 17. maí þ. á. 12) utanskólasveinn Magnús Jónsson frá Felli. Hversu þetta próf tókst, sýnir eptirfylgjandi einkunnatafla. Prófsfulltrúar, settir af yfirstjórninni, voru: herra prófessor P. Pètursson og herra dómkirkjuprestur Á. Jónsson.

## *Einkunnatafla*

í fyrra hluta hins fullkomna burtfararprófs, sem haldið var í Reykjavíkur lærða skóla þ. 20. júní 1851.

| | | dansk. | þýzk. | landafr. | náttúrus. |
|---|---|---|---|---|---|
| skólasv. | Jón Aðalsteinn Sveinsson | dável | dável | dável | dável |
| — | Helgi Einarsson . . . . . . | dável | dável | ágætl. | ágætl. |
| — | Sigurður Eiríksson . . . . | dável | dável | dável | dável |
| — | Magnús Hanness. Stephens. | dável | dável | ágætl. | dável |
| — | Magnús Jónsson . . . . . . | dável | vel | vel | vel |
| — | Þorvaldur P. Stephensen | vel | vel | dável | dável |
| — | Jón Björnsson . . . . . . . | dável | dável | dável | dável |
| — | Jón Jónsson, eldri . . . . | dável | ágætl. | dável | dável |
| — | Steffán Thorarensen . . . | vel | dável | vel | dável |
| — | Jón P. Melsted . . . . . . | vel | vel | dável | dável |
| — | Jón B. Thorarensen . . . | dável | dável | dável | dável |
| utan skóla, | Magnús Jónssson, | lakl. | lakl. | lakl. | vel. |

Reykjavík þ. 27. júní 1851.

*P. Pètursson. Á. Jónsson.*

*S. Egilsson. J. Sigurðsson. H. K. Friðriksson.*

*G. Magnússon. J. Árnason. G. Jóhannesson.*

Eptir að aðalprofinu var lokið, var þeim 3 bekkjum skipt í 4 bekki. Í 4. bekk voru þeir 11, sem höfðu af lokið hinum fyrra hluta burtfararprófsins, var þeim niður skipað, eptir því sem þeim gekk í hinum öðrum lærdómsgreinum:

4. bekkur: 1) Jón Aðalsteinn Sveinsson. 2) Magnús Hannesson Stephensen. 3) Helgi Einarsson. 4) Sigurður Eiríksson. 5) Jón Björnsson. 6) Magnús Jónsson. 7) Jón Jónsson eldri. 8) Jón Bjarnason Thorarensen. 9) Þorvaldur Pètursson Stephensen. 10) Steffán Thorarensen. 11) Jón Pálsson Melsted.

3. bekkur: *b)* 1) Gunnlaugur Blöndal. 2) Haldór Melsted. 3) Bjarni Magnússon. 4) Jón Jónsson frá Barði. *a)* 5) Jón Jónsson ýngri. 6) Sæmundur Jónsson. 7) Steffán Steffánsson Stephensen. 8) Magnús Magnússon Stephensen. 9) Davíð Guðmundsson. 10) Jón Benediktsson. 11) Magnús Pètursson Stephensen. 12) Ólafur Þorsteinn Oddsen. 13) Hjörleifur Einarsson. 14) Jón Guttormsson. 15) Ísleifur Einarsson. 16) Ólafur Finsen. 17) Guðjón Hálfdánsson. 18)

Lárus Edvarð Sveinbjörnsen. 19) Eiríkur Magnússon. 20) Magnús Ólafsson Stephensen. 21) Þorsteinn Þórarinsson.

2. bekkur: 1) Ólafur Hannesson Johnsen. 2) Páll Pálsson. 3) Jón Jakobsson. 4) Þorvaldur Jónsson. 5) Gunnl. Þorvaldur Steffánsson. 6) Oddur Vigfús Gíslason.

1. bekkur: 1) Torfi Magnússon. 2) Þorvaldur Ásgeirsson. 3) Steinn Torfason. 4) Einar Jafetsson.

Þann 30. júní var skóla sagt upp af rektor. Hann minntist við það tækifæri á, hversu skilnaður lærisveina hvers við annan gæti mint á lífsins óstöðugleik, og hvatt til þess, að verja vel samverutímanum, og búa sig undir sína ákvörðun.

### 3) Burtfararpróf.

Til rektors höfðu inn komið nokkur bónarbrèf frá utanskólasveinum þeim, er yfirgefið höfðu skólann hið fyrra ár, þess innihalds, að þeim mætti leyfast að gánga undir hið ófullkomna burtfararpróf með skólans lærisveinum þetta ár. Þessi bónarbrèf voru:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Frá | 9. apr. | 1851, | fyrir Steffán Þorvarð Thorstensen, Hans Theodor Thorstensen og Eggert Magnússon Vaage. |
| — | 10. apr. | — | fyrir Sigurð Lárenzius Jónsson. |
| — | 5. maí | — | fyrir Steffán Pètursson Stephensen. |
| — | 17. maí | — | fyrir Haldór Guðmundsson og Sigurð Helgason. |
| — | 21. maí | — | fyrir Magnús Blöndal. |
| — | 2. júní | — | fyrir Berg Ólafsson Thorberg. |
| — | 24. júní | — | innsent bónarbrèf frá Arnljóti Ólafssyni, dagsett 23. maí næstl. |

Rektor veitti þessum bónarbrèfum áheyrzlu, og viðvíkjandi Arnljóti Ólafssyni, sem með úrskurði kennslustjórnarráðherrans frá 18. maí 1850, var vísað burt úr skólanum, ákvað greifi Trampe í brèfi til rektors, dags. 28. júní 1851, að nefndur úrskurður kennsluráðherrans ekki gæti hamlað því, að Arnljótur feingi að gánga undir burtfararpróf, þar eð liðið væri meir en ár, frá því honum var fullnægt.

Með samþykki yfirstjórnarinnar var prófinu hagað þannig:

| | f. m. | e. m. |
|---|---|---|
| 2. júlí 1851, | f. m. frá kl. 8, Griska. | e. m. frá kl. 3½, sagnafræði |
| 3. — | — — — — þýzka | — — — trúfr., biflíus., N. T. |
| 5. — | — — — — danskur stíll | — — — landafræði |
| 7. — | — — — — lat. stíll | — — — danska, og bókms. |
| 8. — | — — — — latína | — — — rúmfræði |
| 9. — | — — — — skrifl. lat. útlegg. | — — — talnafræði |
| 10. — | — — — — ísl. ritgjörð | — — — náttúrusaga |
| 11. — | — — — — eðlisfræði | — — — enska, frakkneska, ebreska. |

Prófsfulltrúar voru settir af yfirstjórninni þ. 14. júní, herra Lector theologiæ J. Johnsen og herra dómkirkjuprestur Á. Jónsson.

Til prófsins geingu, *a*) af skólans lærisveinum: 1) Steingrímur Bjarnason Thorstensen. 2) Jón Þorleifsson. 3) Jakob Benediktsson, *b)* af utanskólasveinum: 4) Arnljótur Ólafsson. 5) Bergur Ólafsson Thorberg. 6) Eggert Magnússon Vaage. 7) Haldór Guðmundsson. 8) Magnús Blöndal. 9) Sigurður Helgason. 10) Sigurður Lárenzius Jónasson. 11) Steffán Pètursson Stephensen. 12) Steffán Þorvarður Thorstensen. 13) Hans Theodor Thorstensen.

| Þeir öðluðust í prófinu þessar einkunnir: | | tala. | aðaleink. |
|---|---|---|---|
| Bergur Ó. Thorberg: lat. munnl., griska, talnafræði, rúmfræði, steinafræði, eðlisfræði | ágætl. | 104 | 1 |
| ísl. ritgj., danska, þýzka, skrifl. lat., enska, trúarfr., sagnafræði, landafræði, | dável | | |
| Jón Þorleifsson: trúarfr., landafræði, rúmfræði, eðlisfræði | ágætl. | 100 | 1 |
| ísl. ritgj., danska, þýzka, munnl. lat., skrifl. lat., enska, sagnafræði, talnafr., steinafræði | dável | | |
| griska | vel | | |
| Sigurður L. Jónasson: talnafræði, steinafr. | ágætl. | 100 | 1 |
| ísl. ritgj., danska, þýzka, munnl. lat., skrifl. lat., griska, enska, trúarfræði., sagnafr., landafr., rúmfr., eðlisfræði | dável | | |

| | | tala, | aðaleink. |
|---|---|---|---|
| Steingrímur B. Thorstensen: þýzka, munnl. | | 82 | 2 |
| lat., griska, eðlisfræði | ágætl. | | |
| danska, skrifl. lat., enska, trúarfr., | | | |
| landafr., talnafræði | dável | | |
| ísl. ritgj., sagnafræði, steinafræði | vel | | |
| rúmfræði | illa | | |
| Arnljótur Ólafsson: talnafræði, rúmfræði | ágætl. | 80 | 2 |
| þýzka, griska, sagnafr., eðlisfræði | dável | | |
| ísl. ritgj., danska, munnl. lat., skrifl. | | | |
| lat.. enska, trúarfr., steinafræði | vel | | |
| landafræði | lakl. | | |
| H. Theodor Thorstensen: rúmfræði | ágætl. | 75 | 2 |
| landafr., talnafr., eðlisfræði | dável | | |
| ísl. ritgj., danska, þýzka, munnl. lat., | | | |
| skrifl. lat., griska, enska, sagnafræði, | | | |
| steinafræði | vel | | |
| trúarfræði | lakl. | | |
| Haldór Guðmundsson: talnafræði | ágætl. | 67 | 2 |
| munnl. lat., skrifl. lat., griska, steina- | | | |
| fræði, eðlisfræði | dável | | |
| ísl. ritgj., danska, þýzka, ebreska, | | | |
| trúarfræði, landafræði | vel | | |
| rúmfræði | lakl. | | |
| sagnafræði | illa | | |
| Steffán Þ. Thorstensen: rúmfræði | ágætl. | 61 | 2 |
| talnafræði, eðlisfræði | dável | | |
| danska, þýzka, skrifl. lat., griska, | | | |
| frakkneska, sagnafræði, steinafræði | vel | | |
| ísl. ritgj., munnl. lat., trúarfr., landafr. | lakl. | | |
| Jakob Benediktsson: ísl. ritgj., þýzka, | | 60 | 2 |
| munnl. lat., skrifl. lat., enska | dável | | |
| danska, griska, trúarfr., rúmfr., steina- | | | |
| fræði, eðlisfræði | vel | | |
| landafræði, talnafræði | lakl. | | |
| sagnafræði | illa | | |

| | tala | aðaleink. |
|---|---|---|
| Magnús Blöndal: rúmfræði, eðlisfræði . . ágætl.<br>ísl. ritgj., talnafræði . . . . . . . . . . . dável<br>danska, munnl. lat., enska, trúarfræði,<br>sagnafræði, landafræði, steinafræði . . vel<br>þýzka, skrifl. lat. . . . . . . . . . . . . . lakl.<br>griska . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . illa | 60 | 2 |
| Steffán Pètursson Stephensen: talnafræði, ágætl.<br>sagnafræði, landafræði . . . . . . . . . davel<br>ísl. ritgj., danska, þýzka, griska,<br>enska, rúmfræði . . . . . . . . . . . . . vel<br>munnl. lat., skrifl. lat., trúarfræði . . lakl.<br>eðlisfræði . . . . . . . . . . . . . . . . . . illa | 48 | 2 |
| Eggert Magnússon Vaage: talnafr., rúmfr., dável<br>þýzka, munnl. lat., griska, landafr.,<br>steinafræði . . . . . . . . . . . . . . . . . vel<br>ísl. ritgj., danska, skrifl. lat., enska,<br>trúarfræði, sagnafræði . . . . . . . . . . lakl.<br>eðlisfræði . . . . . . . . . . . . . . . . . . illa | 38 | 3 |

Sigurður Helgason náði ekki neinni aðaleinkunn.

Reykjavík í júlímánuði 1851.

**S. Egilsson** *dr. theol.*
Skólameistari.